[Þess Íslendska Evangeliska Smábóka Félags Rit. No. 1.]

# Hugleidíngar

um

# Christindóminn,

blandadar

med

## Frásøgum

útlagdar úr dønsku

af Utgéfaranum.

---

## Til lesaranna!

Þessar hugleidíngar um Christindóminn, eru því samdar undir formi eins samtals, millum ástúdligra vina Philaleths og Evsebii, svo þær verdi hinum einfaldari Christindómsins játendum — hvørra vegna þær sérdeilis ritádar eru — þess skiljanligri, og meiníngunni beinist þess vissari vegur frá skilníngínum til hiartans, hvørs sanna evangeliska betran, er þeirra ypparsta Augnamid. O ad hann, Christindóomsins himneski høfundur, láti sér þóknast ad veita þad, ad lestur ritlíngs þessa mætti, hjá nockrum, stydja til þess, ad þetta allra dýrmætasta augnamid náist! Þess óskar til hans og bidur af hjarta.

Utleggjarinn.

Philalethes var handgenginn vinur Eusebii. Nýliga heimsókti hann þennann vin sinn, hvörr ed tók á móti hönum, med venjuligri vinsemd; en Philalethes vard þess þó var, ad vinur hanus var í þad sinn, framar venju, alvarligur og þánkafullur. Ut úr sérhvörju samtali um litt árídandi hluti, braut Eusebius vonum brádara, og þad vyrdtist, sem hugur hanns hefdi nærsta mikilvæga hluti um ad þenkja. Enda komst Philalethes skjótt ad því, hvad þad var sem vald þessum þánka brotum hjá hönum. Furda dú þig ecki, kjæri Philalethes! sagdi Eusebius vid hann, ad þú í dag hittir mig svo í þánka nidursockinn. Eg feck nýliga fregn, um eins viss manns útgáng af þessu lífi, vid hvörn eg hafdi ádur umgengni haft, en sem á þeim sídustu tímum, hafdi hætt þessari umgengni vid mig, máské vegna þess, ad ockar trúarbragda ástædur voru ecki lengur samhljódandi; eingu ad sídur hefir þó fregnin um dauda hanns ymsmáta mikid tekid á mig; því ysir hvörud ad segja, er þar varla neitt, sem framar kann ad vekja mann, til alvarligrar athugasemi, enn vorra medmanneskja burtför úr heiminum, einkum þöllkra vid hvörja vér höfum ádur kunningsskap haft; en aldrei hefi eg þó svo innsliga, sem vid þetta tækifæri, fundid til þess, hve mikilvægt sóknál þad er, sem fyrir oss liggur

ad gjøra, úr tímanum inní eilífdina, og hvørsu mikils um verdt þad hlýtur ad vera; fyrir sérhvørja skynsama manneskju, ad vita hvilíka von hún kunn i ad gjøra sér, um lukkulig kjør i eptirkomanda lífi. Madur sá, um hvørs útgaungu af tímanum eg tala, var þolíkur einn, sem, medan hann naut lífs og heilsu, lifdi, fyrir heiminum ad sjá, óstraffanlign líferni; einginn kunni ad átelja hann um nockurn løst; í sínu kalli hafdi hann kostgjæfinn verid; í umgengni sinni vid adra, hreinskilinn, og hafdi þar hjá verid einn trúfastur og elskurikur ektamadur og fadir; í fam ordum: hann hafdi æft og ástundad eitt mjøg rádvandt líferni; yfir þessu var hann og svo róligur, og gjørdi sér vissa von um ad finna dygdarinnar laun í eilífdinni. Í þessari von hafdi hann styrkst af ad heyra, hvørsu margir af þessara tíma vitru og upplýstu mønnum, hrósa dygdinni sem einustu uppsprettu farsældarinnar. Kenningu Biblíunnar um Jesú forþénustu, og trúna á hann, sem heimsins Frelsara, áleit hann sem einn of einfaldligann og ósæmandi lærdóm, fyrir vora upplýstu tíma, og skufadi honum þess vegna, sem ástædulausum og eptir hans ímindun heimskuligum. Í þessu ástandi nálgudust endalok hanns lífdaga; en þá fáu daga, sem hann sjúkur lá, setti sá nálægi dómur og eilifd sig, af allri alvøru,

hans sálu fyri sjónir. Samvitskan vaknadi og sanfærdi hann um, ad hann syndari væri; hún hrópadi innvortis fyrir honum, ad allt egid rettlæti dygdi ekkert, til ad sá stadist med því fyrir Gudi; hún sýndi honum, ad margar af hanns mest ljómandi dygdum og bestu athøfnum, væru fram-runnar af saurugri uppsprettu, þar ýmist hefdi drambsemi ýmist jardneskur ábati, edur adrar þvílíkar orsakir, en eingann veginn sannur kjærleiki til Guds og náúngans, hvatt hann og knúd til ad æfa þær enar somu; hann sá hvørsu margar skyldur hann þar fyrir utan vanrækt hafdi, og í hvørsu morgum yfirsjónum hann, med allri sinni útvortis rádvendni, hafdi sig sekann gjørt; hann fann nú hjá sér sjálfum margar ádur óþecktar syndir og vondar tilhneigingar; en serdeilis vard hønum þad ljóst, ad hann reyndar ecki hafdi elskad Gud, sinn stærsta velgjørara, heldur eydt sínum døgum í óþacklætis fullu skeitingarleysi móti hønum, og nú lá hann fyrir daudanum, og mátti á hvørju augnabliki búast vid, ad verda stedur fyrir þeis dómstól, sem geldur einum og sérhvørjum eptir sínum verkum. O! ad hann hefdi nú hast einhvørn þann at tala vid, sem í þessum hanns sálar vandrædum hefdi kunnad og viljad vísa hønum til þess stóra árnadar manns, fyrir syndarana, Jesu Krists, þess réttláta, sem er forlíkan fyrir vorar, já fyrir allrar veraldarinnar syndir. En hanns handgengni vinur, sem

kalladur var til hanns deyjanda, og fyrir hvørjum hann argþýti sín vandrædi, leitadist í þess stad vid ad hugga hann, á þennann hátt: ad þar sem hann jafnan æft hefdi eitt rádvandt líferni, enn vér allir værum breiskar manneskjur, þá heimtadi Gud ecki meira af hønum edur ødrum, enn vér orkad gjætum. Æ! svaradi hinn sjúki, enn eg hefi þó ecki alltíd gjørt þad góda, sem eg hefdi gétad, mín samvitska vitnar móti mér, ad eg kunni og átti hafa margfaldt breitt ødru vísi, enn eg gjørt hefi. Já, ad vísu, svaradi hinn, þú mátt þó hugga þig vid Guds miskunsemi, sem er mannanna fadir, og vill ei gjøra þá einisliga ólucksaliga, þó þeim af breiskleika áfátt verdi. Já, segir hinn sjúki, kynni eg ad eins vona á hanns miskunsemi; enn — samvitska mín ské sir mig, med þeim þanka, ad hann sé eins réttlátur, sem hann er miskunsamur. Hvar fyrir, svaradi hans vinur hønum, villtú svo mjøg skélfast fyrir Guds réttlæti? látum vera ad þú og svo í einu og ødru hafir gjørt Gudi ámóti, þá álítur hann samt þína hreinskilnu ydrun, og hann vill medtaka hana, sem einn vott til þinnar réttiligu betrunar. Þín ydrunar tár og þín andvørp eru sú fórn, sem þú ber fram fyrir hanns réttlæti, og hann mun víst ecki fordæma þig. Ad vísu gégndi hinn sjúki, væri svo ad andvørp mín og tár kynnu ad afmá mínar drýgdu syndir, enn mín skynsemi segir mér, ad sú hreinskilnasta ydran sé þó einginn fullnægju-

bót fyrir vanræktar skyldur, edur drýgdar yfir-sjónir. Kynni ydranin eintóm ad burtu snúa straffinu, þá yrdi víst einginn misbrotamadur straffadur. Enn géti einginn jardneskur Réttur dæmt einn misbrota mann, fríann fra laganna straffi, sökum þess hann ydrast sinna yfirsjóna, hvør gétur þá gjørt mig fullvissann um, ad sá allra réttvísasti Dómari kunni ødruvísi ad breita. W: eg skélf og titra af qvída fyrir Guds dómi! Kjæri vinur! svaradi hinn hønum, það er sjúkdómurinn sem giørir þig svo áugurkraminn; þú hefir þó víst einga orsøk ad skélfast; sleptu því þessum þánkum, og deydu í Guds nafni, dygdinni til heidurs, med ørugga gedi. Lángt var nú frá því ad þessar fortølur vinar hanns gjætu gjørt hann rólegann, miklu framar vóx órósemi hanns vid hvørt augnablik, eptir því sem hann framar fann á sér þann vissa forboda hins nálæga dauda. Og — fánm augnablikum þar eptir skyldi hann vid heiminn. Hanns sídustu ord vóru þessi: O eilífd! ó þú eilífd!

Eusebius endadi hér þessa frásøgn, sem gaf tilefni til eptirfylgjanda samtals.

Philalethes segir:

Af frásøgu þinni, kjæri Eusebius! ræd eg nærfeldt, hvad þu dæmir um þann nýja kénníngar máta, sem á vorum døgum hefir svo mjøg útbreidt sig; í því salinn: ad menn burtu snara

Ritníngarinnar lærdómi um Jesú fullnægju gjörd, og halda fram ad eins skynseminnar Trúarbrøgdum og sída lærdómi, sem þeim er einasta víst manneskjunum veginn til sannrar og eilífrar farsældar. Þó er þad ósk mín, ad eg, vid þetta tækifæri, fái gjør ad vita þánka þína um þetta efni.

Eusebius svarar:

Mín frásaga, sem þú nýliga heyrdir, er ad vísu eingin lofræda um þá nýju upplýsíngu; og í sannleika ad segja, kann eg, eptir minni sannfæringu, ecki annad ad dæma um þá, sem á vorum tímum slíka upplýsíngu verka, enn ad þeir ístad þess ad upplýsa, leidi manneskjurnar í rauninni inni þad hrædiligasta myrkur; og jafnvel þó menn, því midur! medan lucka og heilsa lætur þeim, optliga géti verid svo samvitskulausir, ad þeir, án allrar yfirskodunar, taki fyri satt, allt þad sem adrir, jafnt samvitskulausir og þeir, prédika fyrir þeim, sem hreinann skynsemdar lærdóm og háleita vitsku, þá skérst þó alltíd rann á, þegar sá markverdi tími kemur, ad Gud kallar oss úr tímanum inní þá endalausu eilífd, hvørt vér byggt høfum von sáluhjálpar vorrar á føstum grundvelli edur ecki, og hvørsu ónóg reyndist þá ecki ell hyggan sú, sem eintóm skynsemin géfa kann, og þeir sem á þessum døgum byggja kénníngu sína, ad eins á hennar ljósi. Eg skil alldeilis ecki, af hvørju ein þvilík vesæl manneskja, sem stendur

ir fyrir eilífdarinnar dyrum, skal finna rósemd og huggun, ef hún finnur hana ecki í þessumm sann-leika; ad Jesús Kristur sé í heiminn kominn, til ad gjöra syndugа menn sáluhólpna, og — er þad ecki Trúin á þenna sannleika, sem hefir styrkt svo margar þúsundir hreinskilinna kristinna, til ad gánga móti daud-anum og eilífdinni med hugprýdi?

Philalethes segir:

Jú, kjæri Eusebius! eg má vidurkénna fyrir þér, ad eg var og svo fyrrum gladur og rólegur yfir þeirri sannfæríngu, ad Bibliunnar lærdómur sé Guddómligur sannleiki. Ei heldur vil eg enn nu sleppa þessari sannfæríngu, enn eg gét þó ei heldur neitad, ad eg opt og tídum verd órólигur, þegar ég stundum heyri menn, sem upp-lýstir kallast, draga spott ad Bibliunni; stundum heyri jafnvel kristiliga Kénnifedur, med útþrycki-ligum ordum, sannfæra um, ad dygdin og skyld-uanna uppfyllíng, sé þad einasta sem Gud heimt-ar af oss, og ad öll Trú til þeirra lærdoma, sem skynsemin ei gétur gripid, sé ad eins hjátrú. Eg játa ad út af þessu fellur mér stundum í hug, skyldi þar þá ecki vera nockud hæft i því sem þeir segja; þeir mega þó vita þad betur enn ver hinir ólærdu.

Eusebius svarar:

Ad vísu furdar mig ecki á því, þó slíkir þánk-

ár komi þér íhug; enn þegar þú gjætir grant ad, muntú án efa sjálfur finna, ad þú gétur fullkom-liga róligur verid, yfir þinni sannfæringu um Kristindómsins sannleika, sem bygd er á heilagrar Ritningar guddómligum uppruna. Því hvad spottarana snertir, þá er ég viss um, ad þú lætur þig ecki af þeim villa, því þú ert full skynsamur til ad sjá, ad eckert er svo heilagt og guddómligt, ad dárar géti ei hitt uppá ad draga þar spott ad, enn þad máttú vera fullviss um, ad enn nú er eingin framkomminn sá, sem med nockrum, reyndar skynsamligum ástædum, sannad hafi, ad Biblían sé ecki af Gudi ellegar ad nockur hennar lærdóm-ur, sé ósannsýniligur og mótstrídandi skynseminni; miklu sídur hefir nockur, af vorra daga upplýsur-um, sem forsmá Guds ord, géfid manneskjunum nockud annad í þess stod, á hverju þeir óhultir byggja mættu sálar-rósemi sína og von um eilífa farsæld. En hvad þá menn snertir, sem þykjast virdíngu bera fyrir Biblíunni, en neita þó, ad hún innihaldi lærdóminn um Jesu fullnægjugjörd, og standa á því, ad Jesús hafi einúngis dygd-irnar ként; med lærdómi sínum og lifnadi, þá þarftú eckert annad, enn sjálfur ad lesa Ritning-una, med hreinskilnu hugarfari, og muntú þá audveldt sjá, ad þessir menn, sem látast upplýs-endur vera, draga sjálfa sig og adra á tálar. Því þegar Jesús segir sjálfur: ad han kominn sé til ad géfa sitt líf til endurlausnar

verds fyrir marga, Matth. 20, 28, og annfærir um ad sitt blód úthellist til synda fyrirgéfningar Matth. 26, 28. Nær Páll kénnir: ad þann sem ecki vissi af synd, hafi Gud gjørt ad synda-fórn, fyrir oss, advér hanns vegna skyldum rétátir verda fyrir Gudi 2 Cor. 5, 21. og vitnar: ad haun' hafi géfid sig sjálf' aun til endurlausnar-verds fyrir alla 1 Tim. 2, 6 og Jóhannes fullvissar um: ad Jesús sé forlíkan fyrir allar heimsins syndir, 1 Joh. 2, 2. fyrir utan mørg fleiri jafn augljós ordatiltæki, af hvørjum þad Nyja Testament fullt er, svo þarf vissuliga ecki stórann lærdóm og bókfléstur, heldur ad eins heilbrygda skynsemi til þess, ad skilja ad meiníng slíkra orda er þessi: ad Jesús virkeliga hafi lidid vort synda straff, sé dáinn til þess ad, gjøra Guds réttlæti fúllnægju fyrirvarar syndir, og þad í þeim tilgángi, ad nær vér trúum á hann, skulum ver rettlættir verda, þad er: frídæmdir fra straffi syndarinnar, fyrir hanns sakir.

Philalethes segir:

Mér synist þetta og svo augljóst vera, sem þú segir, og eg vildi ecki fyrir allt heimsins Gull missa þá huggun, sem eg ádur fundid hefi, af

þessari sannfæringu. En — segðú mér af hvörs kémur það þá, að svo margir skynsamir og upplýstir menn, nú um stundir, fallast á þenna nýja lærdóm, og eru svo reiðubúnir að burtsnara hinum, sem þó er svo vel grundvallaður, og semáður hefir verið almennt heiðraður og viðtekinn.

Eusebius svarar:

Furðaðú þig ecki á því, kæri Philalethes! Þú mátt vera viss um, at orsökin til þess hjá allflestum, er ei svo mjög einslags sannfæríng á ástæðum hygð, heldur miklu framar girnd að láta aðra sjá, maður sé skír og skarp vitur, enn þó einkum af því viljen er svo hneigður til að vera frí og laus frá að hlýða Guði. Manneskjan vill gjarnan vera sinn eginn herra; hún hatar þessvegna þann Jesu lærdom sem auðmýkir hennar dramb, og leggur fjötur á hennar girndir. Þar fyrir leitast þeir gjarnan við að innbyrla sér og öðrum, að þessi lærdómur sé ecki af Guði; til þess að þeir svoleiðis kunni þess frekara að lifa, eptir sínum egin tilhneigingum. Vertú viss úm, kæri Philalethes! að þetta er aðal orsökin til þess forakts móti kristinnum lærdómi, sem yfir hönd tekur á vorum dögum. Enn með því þú, kære vinur! eins og eg er sannfærðu um, leitar sannleikans af hreinskilni og þér er mest um hann hugað, þá mun sannleikans Guð vissulega láta þig hann finna, og varðveita þig frá vorra daga villudómum.

Þegar madur med hreinskilnu hiartalagi elskar sannleikann og leitar hans, er manni ecki svo-andveldt hætta búin, ad villast edur afvega leidast.

En kiæri Philalethes! leyfdu mér ad géfa þér enn nú eina áminningu; láttú þér aldrei nægja þad, ad þú nockurn veginn sért sannfærdur um sannleika þess kristiliga lærdóms, heldur gacktú og svo framvegis fram á þeim vegi, sem hann visar til, fridar og farsælda; þá mun þin egin reynsla allra best telja þér Tru um, ad Jesu lærdómur hefir einn guddómligann krapt, til at verka bædi rósemd og betrun hiá manneskiunni, og þar á eptir ad giøra hana í sannleik farsæla. Á vorum tímum drottnar ecki ad eins vantrú, heldur og svo hid skélfiligasta, skeitíngarleysi gégn þeim vidurkénndu sannleika. Margar þúsund manneskjur halda sig ad vera vel kristnar, fyrir þad þær hafi vidbjød á heim nýari villudómum, vidurkénna Jesum fyrir sinn endurlausnara, og látast hugga sig vid hann, jafn vel þeir alldeilis ecki fylgi í lifnadinum lærdómi þeim, sem þeir vidurkénna. Jesu lærdómur útkrefur sanna umvendun og Trú, og hennar eintóm játníng med Munninum, mun aldrei giøra nockra manneskju hólpna og farsæla; hvad mundir þú, til dæmis, álykta um ein mann, hvørn eg vil ei á nafn nefna, svo eg giøri hann ecki allt ofkénniligann? Hann var frá barndómi uppmentadur í kristiligum lærdómi, hann játadi

sig og svo til hans, var þar ad auki vel-kirkjurækinn, og vanrækti ei heldur, ásamt ødrum kristnum, ad gánga til Gudsborðs, látandi þar hjá í ljósi útvortis andakt og auðmýkt; hann trúdi nu fyrirvíst, ad hann kristinn væri, jafnvel hann í hjerni sínu og fram-erdi hegdadi sér eptir þessum heimi, og léti eptir sér marga há hluti, sem opinberliga strída á móti Gudsordi; hans høfud tilhneigíng var ágirnd og hønum þókti engin medøl edur adferd sem hann gat fyrirmønnum komist af med, of audvyrdilig fyrirsig, nær hann ad eins sá; ad hann vid nockud ábatadist. Undir þessa yfirskyni sveik hann opt náunga sinn, og brúkadi allslags vidbárur til ad halda því inni, sem hann átti ødrum ad gjalda. Hjarta hanns var, eins og hanns dyr, aptur læst þeim volndu. Nú nálgadist æfilok hanns, og menn skyldu vænta ad samvitska hanns mundi ad minnsta kosti hafa vaknad, og vakid hjá hønum órósemi, út af hanns drýgdu syndum; en — ónei! hann var alldeilis róligur; hann meinti sig vera vel kristenn, sem hefdi eckert stórkostliga vondt gjørt; og þó hann hefdi syndgad, þá væru vissuliga allar manneskjur breiskar, og þar væru margir til verri, enn hann. Þar fyrir utan huggadi hann sig vid þad, ad Jesús væri dáinn sín vegna, jafn-vel þó hann annarskastar hefdi allt íd synt, og enn nú syndi, stærsta kaldsinni á móti hønum; þó samt, til þess, eptir hanns þánka, ad vanrækja eckert, lét hann og svo, eptir sid-

venju, þjónusta sig á sóttar⸗sænginni, og nú meinti hann að hann hefdi giört allt hvað sér bæri. Eingis merkis til sannarligra sinnaskipta urðu menn hjá hønum varir. Með koldu dauslyndi heyrði hann á allt hvað hanns Kennifadir, sem kalladur var til að þjónusta hann, taladi til hanns, og menn urdu þess berliga varir, að sinni hanns var, allt til hins sídasta, fullt af heimsins sýslunum. Um þú'und hluti hafdi hann að sýsla og í lag að setja, og undir mørgum órólignm umsvifum fyrir veraldligum hlutum, hvørja hann átti þá. strax við að skilja, nálgadist hann æ meir og meir þá dimmu eilífð; og eptir fá augnablik lidin, géck hann veg allrar veraldar. Villtú nú, kiæri Vinur! óska þér kjara þessa manns í eilífdini?

Philalethes svarar:

Gud vard veiti mig frá því! en þú hefir rétt í því, kjæri Eusebíus! að sannliga líkist margra þúsunda svo kalladra kristinna líf og dauði þessu af þér framsetta dæmi, og þetta orkar í sanleika ecki allitils til þess, að gjøra Evangelium, edur Jesú lærdóm, forsmadann í heiminum, að menn sjá svo litla verkun og ávøxt af því hjá þeim, sem þó vidurkenna það.

Eusebíus segir:

Í þessu hefir þú fullkomliga rétt fyri þér; þeir allra flestu þeirra, sem játa Jesúm fyrir⸗

sinn Endurlausnara, eru djúpt nidur sofnir í hé gómans þjónustu. Allir þeirra þánkar og verk hnegjast ad eins til heimsins og þeirra hluta sem i heiminum eru Þeir heyra Evangelium, um Guds sáluhjálpligu náð, sem skyldi kénna þeim ad afneita óguðligu athæfi og veraldligum girndum, en það færir einga verkun hjá þeim, til hjartans edur lifnadarins betrunar; þei halda áfram ad lifa eptir holdinu, og eyda sínum dögum í syndarinnar þiónustu; þeir vita að Jesus er kominn ad endurleysa þá, frá þeirra syndum, enn þeir vilja samt ecki koma til hanns ad láta hann frelsa sig frá syndarinnar þjónustu; samt reida þeir sig á það, að sá Jesús, hvørn þeir jafnan med holdu jafnvel di forsmád hafa, muni frelsa þá frá syndarinnar straffi. O! hvørsu skélfiligt er þad skeytíngarleysi, sem þær allra flestu manneskjur sýna í gégn Jesú, sínum stærsta velgjørara, hvør ed elskadi þá allt í daudann! Hvod er þó sú dárligasta inbyrling, að meina þád, að eintómi útvortis játning Jesú lærdóms, muni frelsa oss frá eilífri fordæmíngu, ef vér engu að sídur áfram høldum að elska þær syndir frá hvørjum Jesús oss endurleyst hefir. Nei, ef ver høfum þann Endurlausnara sem af óforþjentum kjærleika til vor, dauda lekra syndara er í daudann fyrir oss genginn, og hefir þar med afrekad oss frelsi frá eilífu straffi, og adgaungu til eilífs lífs, þá hljótum ver vissuliga og svo ad verda hønum þar-

fyrir af hjarta þacklátir og af þacklætissemi hlýd-dugir; Hafi hann endurleyst oss frá syndugu athæfi heims þessa, þá megum vér heldur ecki lengur í því áfram hulda. Vilji hann gjøra oss fría bædi frá syndarinnar straffi og frá syndarinnar yfir drottun, þá hljótum vér til hans ad koma, svo hann géti frelsad oss; J fám ordnum: Vér hljótum ad þyggja af hønum nád til sannrar umvendunar og lifandi trúar, þá fyrst verdur Evangelium oss kraptur Guds til sáluhjálpar, og vér ødlumst, farsæld í tíma og eilífd.

Eptir fylgjandi frásaga má þéna til ad útlysta þetta:

August Jóhansson var fæddur af kristnum foreldrum, og mentadur i kristiligum lærdómi; hann var sannfærdr um hans sannleika, ad minsta kosti hafdi hann aldrei fundid til nockurs efa um hann; kannské af því hann aldrei hafdi einusinni um hann af alvøru þenkt. Hann var allareidu til ára kominn, en hann hafdi þó aldrei ødruvísi sorgad fyrir sinni sáluhjálp, enn eins og allar óumvendtar og í syndinni daudar manneskjur plaga ad gjøra. Hanns høfud tilhnegíng var drámbsemi hvørja hann lét øldúngis yfir sér drottna; hana nærdi hann vid sérhvørt tækifæri, og hún afvega leiddi hann tíonm til ad gjøra á annara hluta. Otalsinnum hafdi hann heyrt þad ord, um Guds sáluhjálpligu Rád, opt var endurlausn Jesú hønum bodud, en ætid hafdi

hann heyrt þad med kaldsinni, og þó hann ástundum lítid eitt viknadi, hafdi þád þó aldrei gjørt neina sanna verkun í hanns hjarta. Svoleidis framdróg hann, eins og þúsund adrir, sína lífdaga í heiminum. Í tilliti sinna útvortis kjara gékk hønum eptir óskum, og var eptir heimsins talshætti réttur lánsmadur. Hann hafdi og svo álit af ødrum, og fyrirdrambsemi hanns var opt smjadrad, af heimsins medhaldi og hrósi. Med øllu þessu lifdi hann þó engu saunliga ánægjusømu lífi, því hvørsu kann ein manneskja, sem ecki hefir nád hjá Gudi, vera í rauninni undirnidri ánægd, þó hún sýnist svo fyrir mønnunum? Loksins framkom ein stór sinnis-umbreyting hjá þessum manni. Einslags nidran, sem hann eitt sinn vard fyrir, og tilkénnanliga særdi hans drambsemi, gaf tilefni til, ad hann tók ad þenkja um sína sálar hagi. Med óróligu sinnisferi géck hann sama dag í Guds hús, hvar á medal annara hann séck ad heyra þang ord: Gud mótstendur dramblátum, en lítilátum géfur hann nád. Nú urdu augu hanns opnud, og og hann sá í hvørsu ógjæfusømu ásigkomulagi hann þángad til framgengid hafdi, hann þeckti nú gløggt sína inngrónu spillíngu, skélfdist þar yfir og blygdadist fyrir sjálfum sér, ad hann, svo vesæl sképna sem hann væri, hefdi getad svo dárliga stært sig. Hann úthellti nú beiskum tár-

um, ecki yfir nidrun þeirri sem hann hafdi fengid; hana veitti hønum nú audveldt ad fyrirgéfa, heldur yfir sjálfum sér, ad hann med sínni drambsemi og ødrum syndum, hefdi svo hrædiliga móðgad Gud. Hann áleit sig nú hina ólucküsømusśu sképnu, þar Gud stædi sér á móti, og hann hefdi svo stóra orsøk ad burtu snara sér frá sínu augliti. Þetta var nú ecki ein snøgg sinnis og hverful hrærsíng í gédi hanns, heldr vardi hún vid hjá hønum; og því framar hann þenkti um ástand sitt, þess vesællri og ólucküligri vyrdist hønum hagur sinn vera. Þad bar til eittsinn af tilviljun, er svo synist, (jafnvel þó allt svoddan sé í rauninni stjórnan guddómligrar nádar, sem leitast vid ad frelsa syndarana) ad þessi ord báru fyrir augu hanns í einni sálmabók, sem hann fécк í hendur: Þeirra stada lágustu leitid, fyrir Lausnaranum tárum útfleytid, Jesús mun þá ráð ydar rétta, því rósirnar í dølunnum spretta. Sá heilagi Andi blessadi þessi ord í hiarta hanns; Nú í fyrsta sinni á hanns æfi, vard sá sannleikur, er hann hundradsinnum ádur hafdi med kaldsinni heyrt, hønum ómælanliga dýrmætur og mikilvægur; þessi sannleikur: ad þar er einn Frelsari, sem tekur ad sér allar þvílíkár fortapadar og dauda sekar manneskjur. Hann tók þessvegna snarliga þau besu úrrædi: Í djupustu audmýkt varpadi hann sér í bæninni fram fyrir

Jesum; hann æskti eingis ánnars svo hjartanliga í heiminum sem þessa: að Jesu vildi miskunafalu sinni undir bænagiörðini varð hanns hjarta róligra. Sá heilagi Andi leiddi hann inn í hugleidingu Jesu fridþægandi pínu. Hann sá hvörsu Drottinn dýrdarinnar hafdi af elsku til fortapadra syndara sockt sér í hina dýpstu nidurlægingu, svo að hann jafnvel í Gethsemane, eins og vesælasti syndari, fann til þeirra betrustu qvala, og varvadi sér í duptid fyri sínum fødur. Hønum fanrst þá í hjarta sínn, sem ein vinsamlig raust hrópadi til sín og segdi: »ó sjá! »hér liggur Gud í duptinu og himinn á jørdunni, »fyrir þetta knéfall er drambsemi þín fridþægd.« Hann ødladist náð ad trúa og tileinka sér þetta, og fann nú eina lifandi fullvissu í hjarta sínu um: að allar sínar syndir væru sér fyrirgéfnar. Frá þessum tíma vard hann audsjáanliga allur annar madur, enn ádur. Hann var gladur og ánægdur, því hann hafdi frid vid Gud fyrir vorn Frelsara Jesum Krist; þar sem drambsemi hanns hafdi ádur gjørt han óþolandi í umgengni, og opt afvega leidt hann til at módga adra og giøra þeim mínkun, þá gat hann nú þvert á móti elskad náunga sinn af hjarta, og umgéckst þann audvyrdiligasta, án þess ad forsmá hann í hinu minnsta, søkum þess hann áleit nú sér hvørja sína medmanneskju, sem sinn medendurleystan, hvør ed hefdi rétt til jafn-

stórrar æru og vegsemdar sem sjálfur hann. Og þó hann jafnvel endur og sinnum léndi freistínga til drambsemdar, af sínu náttúrufari, einkum þegar hönum þókti sér af ödrum mínkan giörd, þá undir eins og hann vard, þessa vonda var hjá sér, feck hann inniligann ama þar á, og sneri sér til Jesúm í bæninni, og feck svo krapt til ad sigra sjálfann sig. Reynsla sú, ad hann enn nú opt mátti kénna hjá sér tilhnegingar til þessa viðbjóðsliga lastar, olli hönum, þegar hann i fyrdum þenkti þar um, þess stærri audmýkíngar fyrir Gudi, sem uppvhatti hann og svo til dagligrar árvekni og bænar. Smámsaman lagadist hann því framar og framar, ecki einasta til ad afleggja drambsemina, heldur og til ad vera ein sönn fyrirmindan ödrum uppá audmýktina, þar hann ætíd horfdi framar á sínar ysirsjónir, enn sínar dygdir; alltíd áleit adra betri enn sjálfann sig; gat med hógværd þolad og uppgéfid, jafnvel virkiligar nidranir af ödrum; og med sinni kjærleiks fullu liúflætis umgengni vid sérhvörn, ávann hann allra kjærleika, og bar þannig úr býtum þá sönnu vyrdíngu hjá Gudi og mönnum.

Sjádú, kjæri Philalethes! til þvílíkrar sannrar umvendunar hlýtur hvörr sá ad komast, sem ennú er óumvendtur, ef hann vill fyrir Jesú sakir sáluhólpinn verda. Hann hlýtur ad fá lifandi tilsinnungu þess, hve stóra naudþurft hann hafi á Jesú endurlausn, og hann hlýtur ad ödl-

aft af hønum náð til að trúa á hann af allu hjarta, og þessi Trú hlýtur að umbreyta hønum, svo að hann í lunderni og þánka máta, í lifnaði og hegðun, verði að einni nýrri og annari manneskju; því Ritníngin segir: nema nokkur verði að nýju fæddur, kann hann ekki að sjá Guðs ríki, Joh. 3, 3. Því í Kristó Jesú, e. a. fyrir hønum, dugir ekkert, nema það að vera orðinn ný skèpna, Gal. 6, 15. Nú er það að eins, sem áríður, hvørnig manneskjan skal verða uppvakin af sínum dofinleika og óttaligu uggleysis róseind, í hvørri hún annars lifa mundi, alla sína daga, undir syndarinnar þrældómi, og hvørsu hún gèti fengið eitt alvarligt áform, að snúa sèr til Drottins en það er þá víst að ekki alleina hefir Evangelium, hvar með eg skil Jesú lærdóm, í sjálfu sèr einn guðdómligann krapt, til að hræra og uppvekja manneskjuna til eptirþánka, og þennann sinn krapt voltar það jafnvel margsinnum, nær maðurinn sjálfur minnst væntir þess, eður æskir; heldur færir þar að auki sá góði hyrðir Jesús, sem leitar þeirra týndu sauða, og hvørs stóri og kjærleiks fulli tilgangur við oss alla, er að gjøra oss eiliflíga sáluhólpna; Hann, segi eg, færir sèr þar að auki, sèrhvørt tæki færi, sèrhvørt tilfelli í mannsins lífsstundum í nyt, sem til þess gètur þénað, að vekja manninn til að athuga sína eilífu velferð. Þar fyrir eru og þær fyrstu orsaki

til mannana uppvaknîngar af þeirra andvanra leysi, næsta hmisligar. Sá eilífi kjærleiki sem hefir allra manna forløg og lífs framgaungu í hendi sér, brúkar vid ýmsa menn, ýmisliga adferd til ad leida þá til umvendnnar og eilífrar sáluhjálpar. En víst er um þád, ad engann á medal allra vor skortir hvørki tækifæri ad heyra Evangelium, né útvortis tilefni til uppakningar, vildu menn ad eins þar gaum ad gé'a. Þetta, hvørsu sá gódi Hyrdir notar sér ýmislig medøl og tækifæri, til ad uppvekja menniua tii eptir þánka og umhuggju, fyrir þeirra sáluhjálp, vil eg leitast framar vid ad upplýsa og sanna, med eptir fylgjandi frásøgum:

Maria Hannsdóttir, ein stúlka af bænda standi, hafdi um lánga tíma gengid í kirkju, lesid og bedid, eins og flestir adrir, eptirþánkalaust. En einusinni, á einni Jóla hátíd, skédi þad, ad þegar hún í Kirkjunni, medal annars ásamt søfnudinum, saung þessi vers út af þar brúkanligum Kirkju Salmi:

> Herra Jesú! hvørn þínn lýdur, hirdti ei um ad taka ad sér,
> Kom minn sálar sjódur frídur! sjá eg tek á móti þér;
> Egin dómur eg sé þinn! eginndómur vertú minn!
> Þeirrar egnar þinnar kresdu! þig u:ér aftur Jesú! gé du!

Sálina alleinn áttú mína, er kroppurinn
smídi þar,
Af því játa eg egu pína, ønd og líkhams brosid,
miit,
Tak mig þá og eig mig einn! ó minn sálar
dýr gimsteinn!
Í þinni smán eg þinni prýdi, þinn eg sé min
Jesú blídi!

Þá gat hún naumast, vegna stakrar gédshræringar, súngid þessi ord til enda. Það var fyrir henni, allt eins og einhvørr segdi vid hana: meinar þú neckad med því sein þínar varir sýngja? Og hennar samvitska sló hana med því bríxli, ad hennar sanngur væri ad eins varabuldur, en hjartad ætti þar eingann þátt í. Hún tók þá til ad hugsa um sinn sálar hag. Guds sonur er, madur vordinn fyrir þínar sakir, þenkti hún, og þú hefir híngad til aldrei elskad eda þackad hønum þar fyrir, af alvøru. Þú hefir ecki gefid hønum þitt hjarta, eins og þú þó med hárri røddu sýngur; þú hræsnar þessvegna fyrir hønum, nær þú segir: **kom minn sálar sjódur frídur! sjá ég tek á móti þér!** En hvørsu sæl værir þú, ef þetta væri svo í raun og sannleika. Hennar hørmuliga sálar ástand, hennar vantrú og óþacklæti vid **Jesum**, vard henni nú augljóst. Hún skélfdist yfir sjálfri sér, og frá þeirri stundu vard henni þad óbæriligt, ad framgánga lengur eptir sinni fyrri athuga lausu háttsemi. Hun oft-

urgaf þessvegna uppfrá þessu, þeim eilífa miskunnara, hjarta sitt og giørdist ein sunur, og undireins sannfarsæl manneskja.

Jóhanna Péturs dóttir, og svo ein stúlka af lágu standi og kjørum, var á sínu þrítugasta aldurs ári, enn nú þvílík manneskja, sem ekki skipti sér um neinn hlut minna, enn frelsi sinnar ódaudligu sálar. Midt á hennar besta aldri vard hún yfirfallin af stríðum sjúkdómi, sem varpadi henni í sóttarsængina. Hér fékk hennar sálar frelsari tækifæri ad tala eitt alvarligt ord vid hennar hjarta. Hann minnti hana sérdeilis á eina Ritníngar grein, sem í hennar úngdómi hafdi verid þrengt uppá hjarta hennar, þegar verid var ad kenna henni sinn Kristinndóm, nefniliga þessa: Þenktú á þinn Skapara, í þínum úngdómi. Ó! hvörsu ílla hefir þú brúkad þann besta part þinna lífstunda. Í stad þess þú skyldir hafa helgad þær, þínum Skapara og Endurlausnara, hefir þú eydt þeim í athugaleysi, og ýmsum úngdóms syndum; horfinn er nú sá tími, og óbætanligur er þessi skadi, og hvad, ef þú skyldir nú hljóta ad mæta og standa reiknínq sem fyrir honum, sem talid hefir þína daga og sá hvörsu þú hefir brúkad þá. Þessar hugleidíngar hvöttu hana til þess, ad hún af hjarta sneri sér til Jesúm, og bad um nád og miskunsemi, og þessi sjúkdómur vard henni þannig til blessunar um tíma og eilífd.

Einn viss Borgari í einum alþecktum litlum stad, heyrdi eittsinn í einu samqvæmi sagt frá: ad einn kunningi hans hefdi nyliga af einu háska-ligu falli brádliga endt sínar lífsstúndir. Hann þeckti þessa manneskju vel, og vissi ad hún hafdi verid miøg gisin á ad blóta og banna; opt hafdi hann heyrt hana skélfilega formæla siálfri sér, og óska Guds straffs yfir sig; nú sá hann af þessu, ad henni var svo hastarliga burtu svipt, Guds réttvísa straff yfir þessum syndara, og hanns egin samvitska sló hann med því bríxli: "Þú ert ecki betri enn hann," þetta vard tilefni til þessa manns umvendunar á eptir.

Enn nú vil eg hér vidbæta fylgjandi frásøgu, hvørri sá sami madur siálfur hefir frásagt, sem vid þad tækifæri, er sagan frásḱrir, uppvakust til eptir þánka. Þessi persóna ad nafni Andrés komst á einni reisu í selskap med einum manni, hvørr søkum þess hann vildi ei hlut taka, í sinna reisunauta ógudliga og blygdunar litla samtali, var af hinum ødrum hæddur, med því bríxli, ad hann vissuliga væri einn af þeim heiløgu. Andrés var lika svo athugalaus, ad hann fyllti hinna flock í þessu, og ásamt þeim giørdi spott ad Guds ótta, þessa framanda manns. Skømmu þar eptir, hlutu þessir samreisendur allir ad halda ferdinni áfram siófleidis. Einn skélfiligur stormur reysti sig, medan þeir vorn á hafinu, og háskinn vard svo stór, ad skips-fólkid misti giørvalla lífsvon; daudans ángist

málaði sig á allra yfirbragði, og eitt ráðlaust harmabrin heyrdiz á öllu skipinu. Ad eins sá áminnsti framandi madur, hvørn hinir ádur spottad høfdu, var rólegur og óhræddur; engann ángistar ótta syridaudanum var hjá hønum ad merkja; engin møgian edur hriggdarqvein heyrdist af vørum hans. Hvørnig kémur þad til, hugsadi Andrés, ad þessi madur gétur verid svo rólegur, og eg sem ádur var svo djarfur og frekur, skélf nú af daudans hræðslu? Þad eru engin undur, svaradi hanns samvitska hønum; hann er eitt Guds barn, enn þú ert þad ecki; hann veit, ad þó hann deyi, þá fer hans sála í eilífa gledi til Guds; þú þar á móti veitst, ad ef hafid á þessu augnablicki svelgir þig, þá verdur þú eilífliga fortapadur. Í millitíd lægdi stormurinn sig, og skip og fólk komst luckuliga til lands. Nú giordi hann ei framar gis ad þeim ádurnefnda manni, heldur í þess stad leitadist vid ad komast í náqvæmari kunningsskap vid hann; hann spurdi hann, eins og fordum fánga-vørdurinn spurdi Pál: Hvad skal eg gjøra, svo eg eignist eilíft líf? Post. g. b. 16, 30. og féck þad sama svar, sem hann: Trúdu á Drottinn Jesum, svo munntu hólpinn verda. Hann fylgdi þessu rádi, og blessar enn nú þann dag, á hvørjum Guds forsjón kom hønum í kunníngsskap vid þenna mann. Þannig gérast þar óteljandi tildrøgur og ýmislegir vegir, á hvørjum sá eilífi miskunnari

géfur fundid inngáng í hjørtu manneſkjanna; og væru menn kunngri Guds leidſlu á mørgum mønnum, ſem fyrir ſanna umvendun hafa ſneidt ljá fordæmíngu, þá mundu menn viſſuliga finna ótal orſakir, til ad dáſt ad Jeſú náð og vís-dómi, í því ad leita þess og ſáluhólpid gjøra ſem tápad er. En þad er þó eitt, ſem ſérdeiles er eptir tekta verdt í þeſſu, ad hvørſu hmiſligar ſem þær orſakir eru, ſyrir hvørjar manneſkjan uppvaknar til fyrſta eptirþánka, og hvört ſem manneſkjan er ſér nockurrar þvílíkrar merkiligrar útvortis ordſakar til ſinnar umvendunar medvit-andi, edur ecki, þá midar þó verk þeſs heilaga Anda alltíd í fyrſtunni til þeſs, ad leida mann-inn til réttrar ſjálfsþeckingar, því þad fyrſta ſkref til ſannrar umvendunar, er med lifandi ſannfær-íngu ad þeckja ſína djúpu náttúrn ſpillíngu og hørmuliga ſynda ſtand. **Vidurkénndú þína misgjørd, ad þú hefir yfirtrodſlu fram id móti Dróttni Gudi þínum**, ſegir hann ſjálfur, til ſíns fráſnúna fólks, hjá Jerem. 3, 13. Jeſús ſegir ſjálfur: **ad ſá heilagi Andi ſkuli ſannfæra heiminn**, allra fyrſt **um ſyndina**, Joh. 16, 8. og þad ſerdeilis um þá ſynd: **ad þeir ecki hafi trúad á ſig, og ecki af hiarta medtekid ſig og heidrad ſem ſinn endurlauſnara.** Svo ſinnum ver eg ſvo ad Poſtulanna predikan ſle'udi til þeſs ſama; því í Poſt. g. b. 1. ber **Pétur** Eydíng

um á bígt, að þeir hefðu aflífað Jesúm þann heilaga og Guðs útvalda, hvørn Guð hefði nú uppreist af dauða, og gjört hann að einum Herra og Kristi, þann sama Jesúm, segir hann, hvørn þér krossfest hafið. En þá þeir það heyrðu, stendur þar, gékk það í gégnum hjörtu þeirra, og þeir spurðu Postulana: Bræður! hvað skulum vér tilgjöra? og með fögnuði fylgdu þeir þeim ráðum, sem Postularnir lögðu þeim: að þeir skyldu umvenda sér, og meðtaka svo syndanna fyrirgéfníngu í Jesu nafni.

Aður enn manneskjan kemst til þessarar sannfæríngar, um sitt syndugа ástand, fyrri er hjartað ecki opið til mót töku Jesu Evangélia. Svo lengi manneskjan ecki gagn þeckir og finnur að hún syndari é, og fyrir syndina undirorpin hörmúng og hrustu ógjæfu; svo lengi hún ecki fullþeckir sína nauðþurft til syndarfyrirgéfníngar, sem og nauðsyn að verða ødruvísi og umbreytt, samt møgulegleikann til að géta komist til sannrar lífsins betrunar, svo lengi finnur manneskjan heldur ecki, hvílíka þörf hún hefir á einum Endurlausnara, og hefir enga sanna laungun til að leita hanns, heldur heyrir lærdóminn um Jesu endurlausn með kaldlyndi og dofinnlaika.

Philalethes, sem híngað til hafði með

stödugri athugasemi hlýdt á tal vinar síns, gegndi nú framí með fylgjandi ordum:

### Philalethes segir:

Heldur þú þá í rauninni, kjæri Eusebius! ad þessi sannfæríng og andmýktar fullþecking, um þad ad madur se svo af syndinni ramspilltur og straffs makligur af Gudi, se jafn naudsýnlig øllum? Eg játa fúsliga, at hún hlýtur heima ad ega hjá þvílíkum, sem gjørt hafa sig seka í virkiligum stórglæpum og misgjørningum; enn þú hlýtur þá og svo ad játa ad þar gèfast margir réttskickadir og dygdugir menn, sem eru ser medvitandi, ad þeir ecki framid hafa neinn misgjørníng, edur opinberar glæpa athafnir, heldur þvert á móti komid mørgu gódu til vegur, jafnvel madur ecki kunni ad segja um þá, ad þeir trúi á Jesum, heldur miklu framar ad þeir álíti lærdóminn, um hanns fridþægíngu med skeytíngarleysi, edur jafnvel hati hann. Skyldu nú þvílíkir menn og svo þurfa ad álíta sjálfa sig alldeilis ráspilltar og fyrir Gudi straffsekar manneskjur? skyldu þeir jafnvel ásaka sig og ljúga uppá sjálfa sig løstum og syndum, sem þeir þó vita sig fría fyrir? ja, skyldi þad vera rètt, ad setja þá í hóp med þeim opinberliga lastafullu, eins og þeir hefdu jafn stóra þørf og hinir á Guds miskunsemi í Kristó.

Eusebius svarar:

Sannliga er þar stór mismunur á mönnunnum, í tilliti þeirra útvortis hegðunar. Fjærri sé það mér og svo, að eg neiti að allra þvílíkra manna góðar athafnir sen opt mikilsverðar, og til stórrar nytsemi fyrir það mannefkjuliga samfélag. En nær um það skal talast, hvörnig vér eigum að fá náð hjá Gudi og eilífa sáluhjálp, þá kennir Ritníngin oss með ljósum orðum, að þar sé engin misnunur á; því hún segir, þeir hafi allir syndgað og hafi skort á því hrósi sem fyrir Gudi gyldir, og að þeir verdi réttlættir án verdskuldunar, af náð, fyrir þá endurlausn sem skén er fyrir Jesúm Kristum. Róm. 3, 23. Sé þetta nú svo, þá hlýtur jafnvel sá besti og dygdugasti læra að audmýkja sig, fyrir nádarstólnum, sem einn vesæll og nádarþurfugur syndari. Hann þarf þessvegna ecki að ásaka sig fyrir þá löstu, sem hann ecki drýgdt hefir; því við náqvæmari ransókn mun hann jafnvel, með þeirri óstraffanligustu hegdun fyrir heiminum, finna nóga sök hjá sjálfum sér, fyrir Gudi, og komast að raunum að hann hefir í sjálfum sér, ecki einasta eitt þvílíkt hjarta, sem af náttúrunni er spillt og hneigt til hins vonda, heldur og að sínar gódu athafnir, hljóta að hafa næsta lítið álit í Guds augum, þar þær framskjóta ecki af kjærleikanum, sem trúin verkað hefir. Sjálf drambsemi sú, af

hværri þvílíkar manneskjur meina sig svo réttlátar vera, að þær þurfi ecki friðþægíngarvið, og það jafn gylldi og kald sinni, með hværju þær álíta þann, sem þó elskaði þær og gaf sig sjálfann út fyri þær, mun, þegar þær læra að þeckja sig sjálfar réttiliga, sannfæra þær um, hvörsu aumliga ástadt sé um þeirra útvortis góðu athafnir og fráhald frá glæpunum. Látum oss skóða þeirra dygðir og lasta fráhald nockuð nákvæmara við ljósið, þá munum vér bráðliga sjá, hve lítt manneskjan kann að stæra sig af þeim. Justinus, til dæmis, veit sig fríann frá mörgum stór löstum, sem aðrir eru sekir í; látum hann nú rannsaka, hvört hann og svo hefir haldið sér fra þeim af elsku til Guðs, ellegar máské hann hafi eckert tækifæri haft til að drýja þá, og enga freistíngu til þeirra; hefði hann nú verið í öðru ásigkomulagi, og í öðrum kríngum stæðum, hefðu þær freistíngar mætt hönum, sem hinum öðrum lastafullu stórbrota mönnum mætt hafa, þá máské hefði hann breytt eins illa sem þeir, edur enn nú ver. En setjum hann hafi fundið til freistínga, til einnar edur annarar glæpugrar athafnar, enn ótti fyrir veralldligu straffi edur tapun vyrðíngar sinnar hjá mönnunum héldt hönum frá að drýja þær. Hann gétur að sönnu þvíngað sig til að fordast, at láta sínar tilhnegíngar, hatur, drambsemi, lauslæti, og svo framvegis, frambrjótast hið ytra; enn er hann þar fyrir af hjarta mann-

elskufullur, auðmjukur, skírlífur og s. fr., eða munu ecki þær gagnstæðu tilhneigingar, fyrir þeim alvitra Guði augljóslega drottna yfir hauns hjarta. Ef ver bærum því nú ofaná, að hann, í þessu sínu óumvendta ástandi, hefir, sem eg áður áminnt, tilst, ecki elskað, ecki þackað sínum stærsta velgjörara, sem þó gaf sig sjálfann í dauðann fyrir hann, heldur máské miklu framar hefir í hjarta sínu forsmáð hann, vegna þess hann trúað hefir, að hann, án hanns, stæðist gjæti fyrir Guði; mun hann þá ecki, nær alt þetta verður hönum augljóst, géta vel séð, að hann sjálfur sé máské stærri syndari, enn margur einn, sem kann að hafa hrapað í opinbera útvortis stórglæpi. Sá mikli Postuli Páll, var sem kunugt er, einn maður, sem og svo áður enn hann umvendtist, ástundaði dygðir og ráðvendni, og hann komst svo lángt þar í, að hann vogaði að segja um sjálfann sig: að hann væri óstraffanligur, eptir því réttlæti sem er í lögmálini. Phil. 3, 6. Enn hann hlaut engu að síður sannfærast um, að hann væri einn stór syndari; því svo talaði röddin af himnum til hanns: Saul! Saul! hvar fyrir ofsækir þú mig? Post. g. b. 9, 4. og undir eins upprann eitt ljós í skynsemi hanns og hjarta, fyrir hvört hann lærði að þeckja, að hann með allri sinni ráðvendni, sem hann hafði reidt sig á, var þó eins og hann síðar sjálfur játaði, einn hinn stærsti syndari, vegna þess

hann setti sig ámóti þeim Drottni Jesú, sem upphafinn er til Guðs hægri handar, og með grimð ofsókti söfnuð hanns; þessvegna spyr hann nú í ráðaleysi: Herra! hvað villtú að eg skuli gjöra? og með þessu móti komst hann í það ásigkomulag og varð svo tilreiðdur að fá heil. Andi feck verkað Trúna í hanns hjarta. Ut af þessu færðu þá gløggt sjeð, að sérhvør manneskja hlýtur að verða sannfærð um: að svo lengi hún er án trúarinnar á Endurlausnarann, er hún sek straffs og eilífrar fyrirdæmingar af Guði. En sé nú manneskjan komin til þessarar lifandi þeckingar synda sinna, þá reynir hún og svo vissuliga að einginn hlutur hefir krapt að friðstilla syndarans samvitsku, nema Evangelium. Því sé þessi sannleiki burtu tekinn: að Jesús sé forlíkan fyrir vorar syndir, hvað mun þá géta friðstillt eina uppvaknaða samvitsku? Hvað er það, sem þeir nýju upplýsíngar meistarar, er forsmá Ritníngunna og friðþægíngarlærdóminn, hvað er það sem þeir kenna oss þess, að það géti huggað og friðstillt eins syndara sálu? Þeir munu vilja segja til þvílíkrar vesællrar manneskju; "þú hlýtur að stunda eptir að betra hjarta þitt og lífserni; þú hlýtur að setja þér fyrir sjónir lastanna viðurstygð og dygðarinnar fegurð, svo þú uppvekist til að hata þá, en elska hana; þú hlýtur, hafir þú áður lastafullur verið, að vidleitast, með góðum

athøfnum, ad afmá afleidslur þinna dryghu afbrota, svo mun Gud þegar hann sjer þína hreinskilna betrun, fyrirgéfa þér syndir þínar." O hvørsu veik og ótrygg er huggan þessi! En þad er von: Bibliunnar fjandmenn géta ecki géfid oss neina betri. Hvørsu mørg efamál eru her til baka? Því hvad fullvissar mig um, ad Gud, þó hann sjái betrun mína, vilji fyrirgéfa mer syndirnar, og mun eg med minni ófullkomnu betrun, géta stadist fyrir hanns rettlæti? Og hvad þeim skilmála vidvíkur, ad eg skuli betra mig, þá er spursmál: hvad lángt skal sú betran taka, ádur enn eg þørf ad vænta nádar? Hvad ef enginn tími er framar til betrunar fyrir mig, edur til ad bæta upp þad sem vanrækt er? En látum nú sem tími sé til þess, hvadan fæ eg þá krapta þar til? midt í þrældóms ótta fyrir Gudi ad vilja strída móti løstum og tilhnegíngum, sem hjarta mínu eru kjærar og ástunda dygdina, til hvørrar eg hefi enga laungun? O hvílíkur þrældómur er þad! og þó eg kunni ad breyta minni útvortis hegdun, hvad hjalpar mer þad, svo lengi hjartad er óumbreytt; en hvørnig mun eg orka at umbreyta því? hvadan skal eg fá krapta til ad elska Gud, hvørn samviska mín setur mer jafnan fyrir sjónir sem einn óttaligann dómara, yfir syndum mínum? Og hvørsu kann eg vænta þess ad verda farsæll án þess eg elski hann, og af elskunni hlydi hønum?

Þetta upplýsir enn framar og sannar eptirfylgjandi frásaga:

Philippus frá R.... var ein manneskja sem áður lifað hafði í ýmislegum lestum og svalli, og hafði einga þánka gjört sér um það, hvornig fyrir sér mundi fara í eilífðinni. Nú vaknaði hanns samvitska; við hvört tilfelli reður ecki á að vita, svo hann varð fullur af órósemi. Hann sá það fullvel, að ef hann þann veg affram heldi lífnaði sínum, svo væri hann og yrði ein ólucku- leg manneskja, að eilífu. Hann leitaðist nú við að friðstilla sitt ráðalausa og óróliga hjarta, og hans fyrsti þánki var þessi: Eg vil betra mig og afleggja hereptir það vonda og gjøra það góða! Hann tekur því fyrir sig besta áform, með hvørs uppfyllíngu hann vonaði að géta fridstillt og sefað sína óróligu samvitsku; en hvørsu tókst hønum það? þegar fáir dagar að eins vóru liðnir, hafði hann allreiðu brotið áform sitt. Hann hafði áður verið hnegdur til dryckjuskapar, en nu sór hann það ved sjálfum sér, að hann aldrei framar skyldi smacka áfenga drycki. Í nockrar vikur leið hann þá sterkustu pínu af innvortis rafandi tilhneigingu, hvørri hann þó í móti stóð, þar til hann einusinni, i einu gledisamqvæmi, varð af sínum fyrri selskapsbrædrum, og af þeirra dæmi, svo frekliga upphvattur, at hann ei lengur gat mótstødu veitt freistíngunni, heldur lét á nýj yfirfallast af dryckju-

skap. Nú var hann þá ekki alleina ordinn einn dryckjurútari aptur, heldur undireins einn meinsæris madur, og þessvegna tvøfaldt straffsekur fyri Gudi; þad geck fyrir hønum, eins og stendur í Sálminum:

Upp þó sér ætli brádt, aptur ad standa,
Fellur hann þegar þrátt í þýngri vanda.

Hann þoldi nú tvøfaldt meiri samvitsku ángist enn ádur. Hann tók nú fyrir sig á ný þann alvarligasta betrunar ásetníng, en því framar hann kappkostadi ad betra sig, því framar komst hann ad raun um, hvørsu rem og rótgróin syndaspillíng í sér byggi. Hann vard þess var hjá sér, ad hann bratid hafdi, ecki einúngis móti einu heldur øllum løgmálsins bodordum. Ef hann meinti sig yfirbugad hafa eina vonda tilhnegíngu med sér, þá yfirbugadist hann undireins aptur af einni annari. Sér til skélfingar fann hann í sínum hjartansgrunni, (sem hann aldrei ádur hafdi þeckt), einn fullkominn fjandskap í gégn Gudi og hanns vilja, hvørn hann hatadi, af því hann hindradi hanns holdliga frelsi, en fann ad hann gat hønum þó ecki fullnusiu gjørt. Hann æskti med sjálfum sér, ad enginn Gud væri til, eckert himnaríki, og eckert helvíti; en hanns samvitska vitnadi, at þetta allt væri þó í sannleika til, og hann skél dist því meir yfir þeim þánka.

Lengi hafdi hann nú á þessum vegi sorgéfins leitad rósemdar sálu sinni, en fundid þó sína óró-

semi alltíd fara í vöxt, svo það lá við að hann í einslags örvæntíngu slepti allri von um sína sáluhjálp, og í þeim þánka að allt yrdi tilforgéfins, vildi hann nú ad öllu leiti ofurselja sig á ný sínu fyrra syndsamliga lífferni; en rétt í því sama kar honum fyrir augu, þessi grein Rúmíngarinnar Róm. 4, 5. Sá sem ecki erfidar, en trúir á þann sem réttlætir ránglátann, hönum tilreiknast Trú sín til réttlætis. Nú sá hann það ljósliga, ad hann þordi og mátti koma til Jesúm, svo ramspilltur og ógudligur sem hann var, og þar hann alvarliga var ráðþrota og ángurbitinn út af sínu synduga ástandi, þá mátti hann í því ásigkomulagi med djörfúngu til einka sér Jesú forþjenustu, já hann vissi ad Gud vildi, fyri Jesú sakir, án allrar sinnar egingrar verdskuldunar, gjöra sig réttlátann og sáluhólpinn. Þessi Jesú ord: komid til min allir þér sem erfidi drýgid og erud þúnga þjádir, ydur vil eg endur næra, þau verkudu loksins med honum þá stadföstu ályktun: ad varpa sér med allri sinni eymd í Jesú opna fadm, og vænta allrar sinnar sáluhjálpar, af hanns óforþjentu nád og miskunsemi. Sá heilagi Andi gjördi það æ meir og meir bert fyrir honum, ad allt hvad Jesús hafdi gjört og lidid, það heyrdi sér í rauninni eins fullkomliga til, eins og hann sjálfur lidid hefdi allt strast fyrir sínar egin syndir, og sjálfur

gjört, Guðs lögmáli í hrasta máta fullnustu. Hann trúði þessu fullkomliga, og þessi Trú varð hönum til réttlætis reiknuð; ja, hann varð í anda fullviss um, að hann væri hjá Guði fyrir Jesú sakir réttlætr og hans þyrfti nú alldeilis ecki að ávinna sér sáluhjálpina sjálfur með góðverkum, þar Jesús hefði áunnið hana, handa sér; og hann var viss um, að þó haun á því augnabliki ætti að gánga út af heiminum, þá væri sér handvíst himnaríki, jafnvel þó hann enn nú hefði ecki, með nockrum útvortis verkum, auglýst trú sína og betrun. En þar Guð unti hönum ennnú lengri lífdaga í heiminum, svo meðtók hann eptirleiðis náð og krapt af Jesú fyllíngu, til æ meir og meir að afleggja þann gamla manninn, í hvörjum hann áður framgengið hafði, en í klæðast þeim nýja, í hvörjum hann og svo fyrir náðina, æ meir og meir tók framförum; svo jafnvel þó hann ydugliga hrasaði og yfirsjón hendti af breiksleika, tók hann samt alltíð, með dagligri yðrun, tilflugt sitt í trúnni til Guðs náðar í Kristó, og glaðdi sig yfir því, að sitt réttlæti og sáluhjálp væri eigi bygð á sínum egin ófullkomnu verkum, heldur á Jesú fullkomnu forþénustu, við hvörn hann þessvegna hélt sér ætíð fast í trúnni, og kunni því í sannleika að segja og syngja þannig:

Nú hef eg grundvöll fastan fundið, fyrir minn
anda í trúnni hér,

Sem er míns Jesú sár og undir, sá fyrir eilífð
lagður er;
Þó veröldin hrapi, stöðugt stár, sá sterki grundvöllur eilíf ár.

Mörg og margvíslig eru meðöl þau, sem manneskjurnar, meðan þær ekki þecktu Jesúm, fundu uppá að friðstilla og sefa sína samviisku með. Þar þessi innvortis dómari vitnar í öllum mönnum, að þeir sen syndarar, þá finna þeir um leið, undir eins og hún vaknar hjá þeim, hvörsu stóra þörf þeir hafi á einhvörju friðþægíngar meðali. Svo mörg og ýmislig Trúarbrögð sem þar eru til í heiminum, þá finnum vér þó að nær því öll þau ráðleggja eitt eður annað meðal til að afpláua syndina og friðstilla Guð, hvört heldur þetta meðal er falið í góðum verkum, eður í ýmiskonar fórnfæríngum, eður í vissum álögðum þjáníngum og pínslum, með hvörjum manneskjurnar skyldu plága sig sjálfar, til þess að afpláua þær með sínar drýgðu syndir. Jafnvel hafa heiðíngjarnir, í sínum afguða dýrkunar Trúarbrögðum, upphugsað slík friðþægíngar meðöl. En eckert af öllu því sem manneskjurnar kunna að gjöra eður uppfinna, kann ánægjanliga rósemi að veita þeirri áklagandi samviisku. Hún finnur hvörgi sanna hvíld, utan í Trúnni á Jesu forþjenustu.

Eina eptirtekta verða sögu sem þetta upplýsir, er að lesa í einu nýliga útgengnu ágætu riti sem heitir Péturs Mortimers Mis-

sions Félag í Englandi. Hún hljóðarum einn heidingja í Aust-indium; hann hafdi hjá ýmsum frómum mennum og Prestum, á því landi, leit ad uppfræðíngar, hvörnig hann ætti ad fara ad því, ad fridþægja Gud fyrir syndir sínar; þeir höfdu þá upprálagdt honum eina plágufulla ydrun, og rádlagdt honum ad hann skyldi festa sliófa járn-pinna innan í sína skó, gánga sídan á þeim á berum fótum, og þannig gjöra eina pilagríms-reisu fótgangandi, hér um 480 mílna lánga. Þegar blódid rann nú ofmikid út úr fótum hanns af þessu, og hann vegna þreytu finndi ad hann ætladi ad géfast upp, þá mætti hann hvíla sig lítid eitt, þángad til hann hefdi hreßt aptur ad nýju, en þá hlyti hann líka ad halda áfram reisunni. Hann tók nú þessa qvalafullu reisu fyrir sig, og sem hann í einum stad, á veginum hvíldi sig, undir einni skuggafullri eik, hvar fólkid í því héradi, var stundum vant ad koma saman, til ad heyra Evangelium, þá í því sama bili kom þángad einn kristinn Kennimadur, einn af þeim sem útsendir eru medal heidingianna, hvör ed prédikadi út af þessum ordum: Jesú Krists Guds sonar blód hreinsar oss af öllum syndum. 1 Joh. 1, 8. Undir þessari predikun, stód þessi vesæli madur á fætur, kastadi frá sér sínum ydrunar skóm, og hrópadi hástöfum: þetta var þad sem mig vantadi. Og frá þeim tíma vard hann eitt lifandi vitni um þad: ad Jesú

Kristí Guðs sonar blóð hreinsar oss af øllum vorum syndum. Evangelium hefir þá vissuliga einn guðdómligann krapt, til að frida eins vesæls syndara samviſſku, og það fyrst vegna þess, það boðar oss eina fullnægjugjørð, sem algyld er, þar hún er ſkéð af honum, sem alleinn kunni hana í té að láta. Það sýnir oss þar hjá, að það mœguligt sé, að Guð kunni að auðsýna miskun syndurunum, án þess að hueckja sínu egin réttlæti, þar Guðs eginn eingétni sonur hefir, ſſtað allra manna, gjørt Guðs réttlæti fullnægju, með því að líða það straff, sem allir høfðu til unnið. Þar næst opnar Evangelium veg, jafnvel þeim stærstu syndurum, nær þeir af hjarta snúa sér, til að fá náð hjá Gudi; því enginn synd er svo stór, að hún ecki hljóti að verða friðþægð, með þeim fullnægju betalíng, sem er svo ómælanliga mikilsverður, eins og Guðssonar egið heilaga og dýr mæta blóð; og enginn syndari hefir svo vondt aðhafst, að sá með aumkunarsami Frelsari ecki fúsliga taki á móti honum, nær hann snýr sér frá sínum vondu vegum, og veiti honum hlutdeild í sínu réttlæti. Þetta sannar eptirfylgjandi frásaga:

Marteinn T...... var þvílík mannesſkja, sem ecki kunni kunni að játa sig sríann frá stórglæpum. Vellyst var sérdeilis høfuðtilhneigíng hanns, og meðan hann var í sinu yðrungar lausa standi, hafði hann saurugu og óſkírlísu líferni

lifad. Nú vaknadi lofsins samvitska hanns, eptir lángsamann óterligann lifnad og setti honum allar vellystarinnar skélsiligu afleidíngar fyrir sjónir, sem nádu ecki einasta til sjálfs hanns, heldur og til magra annara, sem hann hafdi gjört ólucksaliga med sér. Hún bar honum ecki einasta á brýn, hvörsu svívirdiliga hann fleckad hefdi sálu sína, med saurugum girndum, og misbrúkad líkama sinn til syndarinnar þrældóms, heldur og minnti hún hann á, fleiri enn eina, saklausa qvenpersónu, sem hann táldregid hefdi, og kastad í eymd og og svívyrdíngu. Medal annara minnti hún hann sérdeilis á eina, hvörja hann med mörgum heilögum lofordum tælt hafdi; en þegar hún sídan sá ad hann hafdi svikid sig, og náungar hennar þar ad auki féllu yfir hana, med smányrdum og bríxli, tærdist hún upp af sorg og gremju, í sínum blómliga úngdómi, og áklagar hann nú fyrir Gúds dómi. Nockur ógjæfusöm börn hafdi hann átt utan ektaskapar, og þar hann kunni nú ecki ad sorga fyrir þeirra uppfóstri, sem fadir, hlaut ad ofurgéfa þau þeirra eginn hörmuligu forlögum, og hann símindadi sér þau sem sína áklagendur á sídarsta degi. Þess lengur og framar sem hann hugsadi um lifnad sinn, þess framar skélfdist hann yfir sjálfum sér. Algjörliga ólucksligur hefdi hann nú verid, ef ad Evangelium hefdi ei bodad honum: ad þar sé nád ad fá jafnvel handa þeim stærstu syndurum. En nú las

hann það, sem Páll skrifar til Korintu manna 1 Kor. 6, hvar hann upptelur ýmsar tegundir hinna glæpa fyllstu og andvara lausustu syndara, svo sem saurlífismenn, afgudadýrkara, hórkarla, sælkéra, þá menn sem syndga móti nátturunni; þjófa, ágjarna, dryckjurútara, hneigslara og rænsugja, og segir þar á eptir til þeirra trúndu i Korintuborg: þvílíkir vóru nockrir af ydur, en þér erud afþvegnir, þér erud réttlættir; þér erud helgadir, í vors Drottins Jesú nafni og fyrir anda vors Guds. Þessi ord urdu honum til hugggunar, í hanns hormúngu. Hann þenkti med sér: á sama hátt sem hinir urdu hreinsadir, réttlættir og helgadir, getur þú, svo ordid það, nefniliga fyrir trúna á Drottinn Jesúm, hvar til Guds andi vill hjálpa þér. Hann breytti nú þessvegna eptir dæmi hinnar hinnar-beisyndugu, Lúk. 7. sem vætti Jesú fætur med sínum tárum, allt til þess hún feck þá fullvissu frá sjálfum honum: ad hennar syndir væru henni fyrigéfnar. Hann feck ogsvo þessa fullvissu í hjarta sitt, og undir eins samvitskur ósemi. Ad vísu drö enn nú opt sorgar ský upp í sinni hanns, á hanns sídari tímum, þegar hann þenkti til síns fyrra sukvyrdiliga lifnadar, svo hann mátti tídum á æfi sinni, út hella þar yfir heiskum tárum; en jafnvel þó minníng hanns drygtu synda særdi hann, þá hugsadi hann þó

alltíð undir eins, til þeirrar huggunar, að þetta væru allt fyrigéfnar syndir, og þar við fridstilltist hanns hjarta.

Philalethes segir:

Það er vissuliga víst að enginn hlutur kann eins ánægjanliga, að friða syndaranns samvitsku, sem trúin á Jesú fullnægjugjörð. Þar um er eg alldeilis sömu meiningar og þú. En heldurðú ecki, að Evangeli lærdómur, með því að géfa syndaranum svo friðstillandi huggun, styrki þá í þeirra syndnga uggaleysi, og hindri þeirra sönnu betrun, því eg veit, að þú efalaust viðurkennir það með mér, að það sé ecki nóg, að syndarinn fái huggun, hann hljóti og svo í rauninni að láta af sínum vonda vegi, og taka sannarlig sinna [illegible] og forbetrun; því annars sé sú huggan, sem hann smíðar sér, eckert nema fölsk von og innbírlíng.

Eusebius svarar:

Að sönn hjartans og lifnaðarins umbreytíng og betran sé nauðsynlig og óaðgreinanlig frá sannri umvendun, í því hefir þú fullkomliga rett. Jesú lærdómur útkrefur það og svo alvarliga; já ecki það einungis, heldur svo sannarliga sem Evangelium hefir einn guðdómligann krapt til að helga og betra manneskjunna í sinnislagi og þánkamóta í lifnaði og hegðun, og friðstilla syndarana, svo sannarliga hefir það og einn jafn-guðdómlig

ann krapt, til ad helga og betra manneskjuna, í sinnislagi og þánkamáta, í lifnadi og hegdun, og það vottar vissuliga og svo þenna sinn sáluhjálpliga krapt og verkun, hjá öllum þeim sem medtaka það af hjarta. Undir eins og manneskjan ecke alleina hefir lært að þeckja sjálfa sig, sem einn vesælann af náttúrunni ramspilltann og dauðasekann syndara, heldur og. svo hefir tekið sitt tilflugt til Jesú, og þannveg sengið fullvissu í hjarta sitt að sínar syndir séu sér fyrigéfnar, þá verkast og framqvæmist þar með algjörlig umbreytíng í hanns þánkamáta, þá og aldrei fyrri, verdur syndariun algjörliga hæfur til að elska Guð og sinn Endurlausnara af hjarta. Það uppvekur hann nú til inniligasta þackætis, nær hann þenkir um, að Guðs sonur hefir elskað hann, og géfið sig sjálfann út fyrir hann. Þegar hann sjer, hvað allsgóðs ómakligur syndari hann er, í sjálfum sér, og hugleidir þar hjá, hvör sú persóna er, sem með sínu eginn lífi og blóði hefir frelsað hann, frá eilífri glötun, þá finnur hann að hann aldrei kann nógsamliga að þacka hönum, aldrei nógsamliga audsýna hönum sína þacklætissemi, fyrir svo óverdskuldadann og stórann kærleika. Það er hönum nú viðbióðsligt, að hugsa til þess, að hann með frium ásetníngi og vilja skuli brjóta á móti einum svo elskurskum Gudi. Hann æskir miklu framar, að géta audsýnt kjærleika sinn til hanns aptur ámóti, með

sonarligri hlýðni við hanns boðorð, hvør hann nú nndireins þeckir øll saman að vera vísdómss og elsku-fullar skipanir, sem allar miða til hanns egin sanna gagns, og hvørra eptirbreitni færir með sér sanna blessun fyrir sjálfann hann. Þessvegna vill hann fúsliga gjøra hanns vilja, og að géta það, þar til styrkir hann sá heilagi Andi, sem hønum géfin verður fyrir sakir Jesú, og sem nú býr í hanns hjarta, og án afláts kennir, áminnir, aðvarar, sannfærir og straffar, samt friðstillir og huggar hanns hjarta. Það er ølbúngis víst, að ecki gérur sá einberi skynsemdar siðalærdómur og ydugliga áminníng til skyldu-verkanna, gjørt, eins og vorrar aldar upplýsíngar feður halda, mennina sanndygðuga, heldur einasta Jesú Krists Evangelinm.

Philalethes segir:

Hvað veldur því þá, að lifnaður þeirra flestu kristinna sýnist þó að votta það gagnstæða? því hvørsu margir lestir ganga ecki fjøllum hærra í kristindóminum? og hvørsu ógudligu líferni lifa margir á meðal þeirra, sem játa Kristum?

Eusebius svarar:

Já, það er grátligur sannleiki sem þú segir; því hinir flestu af svo nefndu kristnum, eru í rauninni éngu betri, enn heiðingjar, og margir máské enn nú verri; en mér gjøriſt ecki þarf kjæri

Philalethesi að minna þig á það, að sökinn fyrir glæpi þeirra kristnu, kann enganveginn til-leggiaz Jesú heilaga lærdómi, hvorn þeir vidur-kenna, heldur hlýtur hún einúngis að egnast sjálfum þeim, vegna þess þeir setja sig ámóti þessa lærdóms verkunum, í sínu hjarta, til þeirra betrunar og frelsis. Gjörvallur kristindómur velflestra kristinna, er einúngis falinn í útvortis játníngu Jesú lær-dóms, og vissum útvortis Trúarbragða æfíngum, hvorjar þeir ydka, og gjöra sér þar fyrir í hugar-lund, að þeir séu Gudi velþóknanlegir, jafnvel þeir aldúngis ecki vilji gánga þann veg til sálu-hjálpar, fyrir umvendunina og Trúna, sem Evan-gelium vísar þeim. Jesús útmálar oss þessara manneskja hegdun, í því hann segir: **Þetta fólk nálægist mig med sínum munni, og dýrkar mig med sínum vörum, en þeirra hjarta er lángt frá mér.** Matth. 15, 8. En hvar Jesú lærdómur er virkiliga af hjarta medtekinn, þar verkar hann sanna betrun ófan-liga; og að þetta svo sé, um það kann bædi sögn og reynsla best að sannfæra. Ef ver lesum Post-ulanna Gjörninga, hvörsu finnum ver þá ecki, hvi-líka umbreytingu Jesú Evangelium gjördi í mann-anna sidum og sinni, allstadar hvar það féck inn-gaungu í hjörtun? Hvörsu máttu menn ecki sjá, að heidingjar þeir, sem allra mest vóru í afguda-dýrkun og glæpi nidursocknir, yfirgáfu, med fögn-udi, sínar heidindóms vídursiygdir, og burtsnörudu

sínum afguda blætum, og hjátrúar'u'lu galdralystum, undireins og þeir vóru trúadir ordnir? Hvílíka hreinskilna elsku til Guds og Jesú audsýndu þeir ecki, med því ad játa hanns lærdóm, midt undir þeim grimmustu ofsóknum, allt í daudann! hvørsu urdu þessir ecki, sem ádur høfdu verid ósidsømustu manneskjur, umbreyttir til ad verda, hógværir, mannelskufullir, skírlífir, hóffamir og sidlátir. Og svo kann enn nú á vorum døgum sagnafrædin ad framleida mørg þúsund dæmi, jafnvel medal þeirra villtustu heidingja, uppá það, hvad Evangelí kraptur megnar ad betra manneskjurnar. Þessi guddómligi lærdómur bodast enn nú þessum døgum, af kristnum kennendum, fyrir mørgum þúsund manneskjum í heidindóminum, og þessir eru sumpart vesælir þrælar, sem í sínu fødurlandi Africa ræntir verda og seldir til Evropiskra, hvørjir árliga flytja mørg þúsund slíkra saklausra mannsképna á skipum, yfir til þeirra Vestindisku eylanda, hvar þeir brúka þá til þess strángasta erfidis, einkum vid ræktun sykurakranna. Þessir þrælar hafa í sínu fødurlandi upalist sem heidíngjar, og eru mestpart, yfir høfud ad segja, med harla slæmu náttúrufari; því þeir eru hnegdir til þjófnadar, ótruskapar, grimdar, lauslætis og annara glæpa. En sídan Evangelium hefir fengid inngaungu hjá þeim, finnur madur, á þeim Vestindisku-eyjum, sjølmenna kristna søfnudi af þeim, hvørjir, med sinni rádvøndu hegdun og sandygduga

framferdi, lýsa fyrir ødrum og géfa heiminum gyllð vøk til þess, hvað Evangelinu megnar að framqvæma. Ut af þessu hefir það leidst, sem optar enn einusinni tilborið hefir, að Herramenn, þeir, sem þó sjálfir hafa ecki af hjarta elskað né rækt kristindóminn, hafa beidst að kristnir kennendur væru sendir til þræla sinna, sökum þess þeir hafa varla með hardasta straffi gétað haldið þeim í stilli og hlýðni, meðan þeir heidnir vóru, en vóru fullvissir um að undireins og þrælar sínir yrðu sannkristnir, þá yrðu þeir og svo trúlyndar, kostgæfnar og hlýðnar manneskjur, og reynslan hefir sýnt, að þessi þánki hefir þá ecki á tálar dregið. Allt eins er því varið ennnú vor ámedal, að allstaðar hvar Evangelium fær sannliga inngaungu í hjørtun, þar tilreiðir það manneskjurnar, til sannrar dygðar; það gjørir þær mannelskufullar, hógværar, hreinskilnar, skírlífar og kostgæfnar í sínu kalli, svo þær verða trúir og hlýðnir undirsátar, hógværir Herrar og húsbændur, ydnir og hreinskilnir borgarar, hlydin børn og þénarar og svo fr. Láti nú vorra tíma sidalærendur, sem forsmá Jesú Evangelium, sjá, að þeir géti framleidt svo mikla sanna dygð, sem verkuð sé af þeirra sidarlærdómi, hvað ákaft sem þeir hann prédika. En látum nú svo vera að sá einsamli skynsemdarinnar sidalærdómur orki þess að gjøra einstaka útvortis ráðvanda og dygðuga

menn, þá er samt dygd sú, sem Evangelium verkar, lángtum edalligri artar og edlis. Gjørum og svo ráð fyrir því, að einn eður annar yrði svo uppøvfadur af þeim sídalærdómi, sem vorrar aldar upplýsendur kenna, að hann legði alla stund á, og virkiliga fengi uppfyllt (hvað þó aldrei ské nunn eður skéð getur) allar þær skyldur, sem þessir Kennendur hønum prédika, hvað mundi þá uppkoma hjá þvílíkri einni manneskju? Eckert annað enn einn dramblætis og sjerþotta heilagleiki, svo hann dagliga væri að setja Guði fyrir sjónir, allar sínar edalligu athafnir, sem hann framqvæmt hefði, eins og Phariseearinn forðum, og kynni þessvegna einslitið að þóknast Guði sem hinn. En ímindaðu þér nú annann mann, við hlidina á þessum, sem kominn væri til sannrar þeckingar sinnar djúplægu náttúru spillíngar, og sem í hjarta sínu findi til þess, hversu lítið gott hann framqvæmt hefur og framqvæmt getur, hver út af þessum ástæðum, finnur eckert það hjá sér, sem í nockru gyldi sé, eður til nockurrar umbunar vinni, heldur álítur allt það góða, sem við sig framkemur, einbera Guðs náð fyri Krists sakir, og einúngis uppá sömu ástæður væntir eilífrar sáluhjálpar. Hjá þvílíkri einni manneskju, tilreidist æ framar og framar þetta allra ypparligasta sinnislag. Ut af þeckingu síns egin vansa, og óverdugleika, gjørist hann ætíð af hjarta auðmjúkari, jafnan meir undanlátsamari, ljúfari og

vingjarnligri, vid sérhvørn. Hann umber þann órétt sem hønum syndur er, ávallt med stærri þólinmædi; hann leitast vid ad ávinna jafnvel óvin sinn, med hógværd og velgjørdum. Aldrei verdur hann fullsaddur af ad gjøra gott, sökum þess hann veit, ad hann aldrei kann ad gjøra þad ofmikid, já, aldrei einusinni ad gjøra svo mikid sem hønum ber; og allt þetta gjørir hann fyrir þá skuld, af því hann á annann hátt getur ecki audsýnt þacklátsemi vid sinn Gud og Frelsara, fyrir alla þá óendanligu miskunsemi sem hann audsýnir hønum, midt í því hann finnur sig ad vera svo slæmann og lakann í hanns augliti. Gjøri hann eitt sannarliga gott verk, þá gjætir hann naumast sjálfur þess ædla og ypparliga í athøfn sinni, og finni hann nockud gott þarf, tilleggur hann ecki sjálfum sér, heldur Gudi alla æruna þar fyrir, hvørr ed verkadi þad í hønum og fyrir hann. Hann er sjálfur aldeilis eckert í sínum augum, en Kristur er hønum allt í øllu. Til ad upplýsa þetta betur, vil eg segja þér frá følgjandi tveimur søgum, sem virkiliga tilborid hafa.

Einn víss stór og nafnfrægur Lærifadir og Biskup, í Krists kirkju, hafdi í sínu ydjusama lífi, yfirmáta mikid erfidad til Evangeli útbreidslu. Med sann-postulligri ákéfd hafdi hann, mørgum þúsund manneskjum til blessunar, bodad Jesúm, ecki einúngis í Evropa, heldur og í ødrum

heimsins álfum, og fyrir Jesú sakir opt útstadid stærstu þjáníngar, lidid skort og naud, og ecki matid sitt egid líf dýrmætt. Þegar þessa stóra manns fædíngardagur innfell einusinni, í hanns háa aldurdómi, vildi sofnudur sá, í hverjum hann þá héldt sér uppi, andígna hvnum sinn kjærleika og heidrun, og hafdi í þeim tilgángi, yndirbúid eina hátídliga samkomu, í kirkjunni, til hverrar hann innbodinn var. Midt undir dæiligum hljódfæra slætti, var súnginn einn sálmur, sem tilbúin var til þessa dags, og í hverjum sofnudurinn óskadi honum til lucku, med inngaungunna í eitt nýtt lífsár, þackadi Drottni fyrir allt þad mikid góda, sem hann fyrir hanns hond, hafdi sinni kirkju audsýnt, og alla þá blessun, sem fyrir hann veittst hafdi morgum þúsundum, svovel kristinna sem heidingja, hvar med og svo minnst var á þad mikilvægasta, sem hann hafdi svovel í Evrópa sem America, framqvæmt; menn æsktu, ad Drottinn ennnú framvegis vildi lengur vidhalda þessum sínum þénara, til þess safnadar og margra fleiri sagnadar og uppbyggíngar. Undireins og þessi saungur var, med allra hjartanligri samstemmu, á enda súnginn, reysti Biskupinn sig upp í sínu sæti, og tók einn ad sýngja eitt vers, af einum í hanns túngumáli alkendum sálmi, þessarar meiníngar:

Sjá! hér stend eg nú sekur og beidi,
Sem þína forþjent hefi reidi,

Befælum Drottinn! væg þú mér!
Veit eg miskun er nóg hjá þér.

Þessi óforvarandis og óvidbúna fyrirteckt, gjørdi stóra hræríngu og verkun í allra nálægra hjørtum; því þar sem þeir og allir adrir, litu einasta á hanns ypparligu athafnir og frábæru dygdir, þá horfdi hann sjálfur alleina á sína bresti. En, óhvílikann blóma útbreidir ecki þessi hanns audmjúki þánkamáti, yfir gjørvallt hanns sannkristiliga og yfrid dygduga líferni! Hann er nú inngenginn í síns Herra fognud, en hanns minning lifir til þeirra sídustu tíma.

Þad annad dæmi, sem eg hét ad segja þér frá, er þetta eptirfylgjandi: Jóhan Madson er einn einfaldur bóndi, en undireins einn sanntrúadur og til nádartekinn kristinn madur, sem allareidu lengi hefir þjónt hefir Guds vors Frelsara lærdóm, med réttskickadum lifnadi. Hann fagnar yfir øllu því góda, sem hann nýtur í Jesú samfélagi, og er uppfylltur af sælusullri von eilífs lífs. Hann er annars í tilliti þess tímanliga, af náttúrunni ædi adsjáll, og gjafmildi er víst ecki hanns náttúru far. Einn dag bar svo til, ad hann vard sjúkur, og var hønum þá, eptir hanns ósk, veitt sú heilaga qvøldmáltíd, í hanns egin húsi; hanns hjarta var þá sérdeilis glad vært, og hugsaninn um Jesú kjærleika, sem gaf sig út fyrir hann, uppfyllti alla hanns sálu. Ad

álidnum degi, kom einn fátækur kunníngi hanns, sem ogsvo var einn Jesú vinur, til ad vitja hanns. Hann hafdi um lángann tíma ádur ecki komid til hanns, vegna þess hann var skyldugur honum um nockra ríkisdali, sem hann þó ennnú ecki gat borgad, og blygdadist þessvegna ad koma til hanns. Samt og ádur hafdi frétinn um hanns vinar sjúkdóm, hvatt hann svo, ad hann gat ei haldid sér frá ad sjá hann. Jóhann gladdist ogsvo yfir ad sjá hann, en hinn fyrirvard sig, og bad hann ad halda sér til góda, ad hann enn þá ecki hefdi peníngana til, enn hét þó ad hann skyldi hid allra fyrsta færa honum þá. Kjæri bródir! svaradi Jóhann honum, taladu ecki framar um þá fáu penínga; vor Frelsari hefir í dag gefid mer svo mikit, og gjört mig fullvissann um, ad hann hafi afmád alla skuld mína hiá Gudi; eg vil ecki ad sú léttvæga skuld, sem þú talar um, skuli vera þér lengur til þýngslu; hún skal hér eptir vera eldungis af mád og uppgéfinn. Sá fátæki gat ecki nógsamliga voitad sína þacklátsemi, og gjørdi miklu meira úr þessari gódgjørd; enn Jóhann sýndist hún verd vera. En hann sem sagt hefir: Allt hvad þér gjørdud einum af þessum mínum minnstu brædrum, þad gjørdud þér mér, mun víst ecki láta þetta verk á sídasta degi ólaunad.

Mun nú ecki þvílík ein athøfn, hvorsu lítilvæg sem hún annars sýnast kann, þar hún er einn

ávøxtur af sønnum kjærleika til Jesúm, og Þacklátsemi við hann, verða þó lángtum meir metin í hanns augum, sem hjørtun ransakar, enn margar aðrar lángt glansligri athafnir, sem ei eru flotnar af þessari uppsprettu.

Nú sjerðú, að eg vona, kjæri Philaletheş! að Evangelium hefir í sannleika guððómligann krapt, svovel til að friðstilla, sem til að forbetra mannesk junnar hjarta. En — því miður! að fáir þeirra sem viðurkenna Jesúm, géta vitni borið um þennann krapt Evangeli, af egin reynslu, vegna þess þeir mótstanda þess verkunum í sínu hjarta, svo þó þeir þecki veg sáluhjálparinnar allvel, eptir bókstafnum, eru þeir þó samt og verða vesælir syndaþrælar, og ólukkuligar manneskjur, sem qviða megu við því, að' það orð, sem þeir hér til sorgéfins heyrðu, muni fordæma þá á síðasta degi. Hvørr sem þar á móti verður í sannleika hugsjúkur um sitt eilífa frelsi, og í þessari sinni hugsýki gefur Evangelió rúm í hjarta sínu, hann kémst vissuliga að raun um krapt þess í sálu sinni, bæði til rósemdar sér og betrunar, og þá verður þessi hanns egin reynsla hønum óhrekjanligasta røksemd til þessa orðs guððómliga sannleika Hafi maður fyrst fullkomliga reynt þessa orðs krapt, í hjarta sínu, þá lætur maður sig ecki, kjæri Philaletheş! svo auðveldt villa, af vorra daga spotturum. Angrast kann einn sannkristinn að vísu yfir manneskjanna skeytíngar-

leyst og stjórnlausu frekju, að draga spott að Biblíunnar heilagasta sannleika, enn samt mun hann ecki rasbast í sinni sannfæríngu. Þegar hann heyrir vitrínga vorra tíma neita spillíngu mannligrar náttúru, enn hrósa mannsins egin kraptum til dygðar og góðra verka, þá trúir hann Ritníngunni, sem vitnar að mannsinns hjartans þánkar séu vondir í frá barndómi. 1 Mós. b. 8, 21. og að af mannanna hjörtum útgángi allslags vondsku verk, Mark. 7, 21. og ver séum ecki hæfir af sjálfum oss til, að þenkja, enn síður til að gjöra nockuð gott af sjálfum oss til. 2 Kor. 3, 5. Þessu trúir hann, af því hann finnur því svoleiðis háttað hjá sjálfum sér, en aumkar hina menn, sem ecki þeckja sig sjálfa; og þeirra framburður vyrðist hönum vidlíkur, eins og ef að einn sem lægi í þýngsta sjúkdómi, og gjæti eckert úr stað komist, af egin kraptum, skyldi segja að eckert gengi að sér, og að hann gjæti unnið allt hvað hann vildi og við þyrfti. Nær hann heyrir þessa forblinduðu upplýsendur halda á því, að manneskjan skuli með dyggð sinni ávinna sér sáluhjálpina, og að hún þurfi engis annars við, til að fá stadist fyrir Gudi, þá trúir hann þvert á móti Ritníngarinnar kenníngu, sem segir: að einginn manneskja géti af Lögmálsins verkum réttlát orðið. Gal. 2, 16. Því hann veit með sjálfum sér, að ef Gud

vildi brenta við sig, eptir sínum verkum, þá hlýti hann eilífliga að glatast. Þegar hann heyrir þessara vorra daga sterku anda neita endurlausn Jesú Krists, og bart svara lærdóminum um Jesú fullnægjugjörð, sem grundvallar lausum og óþörfum, þá aumkar hann þessar vesæln manneskjur, sem með þessu móti ræna sig sjálfar og aðra því einasta frelsismeðali, sem til er fyrir syndarana. Hann veit af egin reynslu, að Jesú Krists Guðssonar blóð hefir hreynsað sig af allri synd. Hann veit, að þegar hann í fyrstu kom á Jesú fund, og hann ødladist náð til, sem einn vesæll syndari, að géta tileinkað sér Jesú fullnægjugjörð, þá fann hann ró emd fyrir sálu sína; hann kann í sannleika aðsegja og syngja:

Einginn draumur því er sú von, yfir hverri eg fagna sæt,
Að Guðs mer hefir hinn góði son, géfið sakleysis klæði mætt.

Vilji nockur bera það fram, að Evangelí lærdómur gjøri manneskjurnar ugglausar, og hindri betrun þeirra, þá er hann af egin raun um allt annað sannfærður. Hann viðurkennir að það var hið fyrsta orð, og eckert annað, sem vakti hann af sínum andvaraleysis svefni, og fyrst þá hann lærði að þeckja og elska Jesúm, sem sinn friðþægjara, og með trúaðri bæn ødladist krapt til dygdanna hjá honum, varð hann fær til að drottna

yfir sínum vondu tilhneigíngum, og kann ad sála sín vard upptendrud af girnd og krapti, til ad fordast þad vonda, en gjöra þad góda. Fyrir sína persónu þarf hann ecki adrar röksemdir til þess, ad Jesú lærdómur sé sannur og guddómligur, og ef nockur vildi med margskonar lærdum, og útvöldum ástædum, sanna fyrir hönum, ad Trúin á Jesúm gjöri manneskjuna fulliliga farsæla og hólpna, þá þækti hönum þad vera eins ónaudsýnligt fyrir sitt leiti, eins og ef nockur vildi fyrir þeim manni, sem situr vid elld og vermir sig, med mörgum heimspekiligum ástædum, bevísa þann sannleika: ad elldurinn hafi krapt ad verma; hann mundi svara: þetta þarf enginn ad bevísa mer, því eg reyni þad sjálfur.

Hér af sjíst þá ogsvo, ad hverr sem svoleidis reynir Jesúm ad vera sinn sáluhjálpara, hann er allareidu hér í heimi, sú farsælasta manneskja, já sá einasti sem med fullum retti kann ad nefnast svo. Manneskjur þær, sem, því midur! eru allt ofmargar, sem aldúngis nidursöcknar eru í jardneska hluti, og hugsa einúngis um þetta nærverandi, þær kalla þann mann lukkuligann og lángéfinn, her í heimi, sem gnægd hefir af heimsins aud og peníngum, sem er í metordum og áliti, og notid géiur margskonar eptirlætis eptir vild sinni. En reynslan géiur þó nógsamliga sannfært oss um, ad sá er ecki alltid lukkuligur, sem jafnvel nýtur þessara hluta ypirfljótanliga,

og ad einasta eignarráð þeirra, kunna aldrei ad gjöra neinn manneskju í sannleika farsæla.

Ímyndadú þér, kjæri Philalethes! tvo menn, sem bádir hafa jafna útvortis kosti vid ad búa. Annar þeirra, jafnvel þó hann vanti eckert af tímanligum munum, heldur enn hinn til ad ánægja sinni síuu med, hefir þó eckert sann ánægt sinni, vegna þess hanns egid hjarta fordæmir hann. Syndin drottnar yfir hönum, hann veit eckert af gledinni í heilögum Anda ad segja, hann hefir enga vissa von um eilíft líf. Hinn þar á móti, er kominn ad raun um, ad Jesús er sinn Frelsari; hanns syndir eru, fyrir Trúna á hann, hönum fyrigéfnar; hann hefir fyrir hann frid vid Gud; syndin kann ei framar ad drottna yfir hönum, því hann er undir nádinni; hann er frí frá hrædslu fyrir daudanum, dóminum og helvíti; hanns sála kann ad gledja sig í þeim lifanda Gudi; hann hefir eina vissa og velgrundada von um eilíft líf; hann hefir fríann adgáng fyrir Kristi sakir til Guds, og kann færa allar sínar bænir fram fyrir hann, án þess ad þurfa ad efast um bænheyrslu; hanns hjarta er uppfyllt med elsku til Guds og náúngans. Sá heilagi Andi býr í hanns hjárta og ber hönum þann vitnisburd, ad hann sé eitt Gudsbarn.

Seg mer nú! hvorr, af þessum tveimur mönnum, er nú luckuligri? já, þó þeirra útvortis hagir misjafnir væru, mundi ecki sá sídari vera

luckuligri í kofanum enn hinn í höllinni? Hér, uppá vil eg segja þér eptirfylgjandi dæmi:

Allt fólk segir að Herman von H. sé einn luckuligur maður; Hann býr í einu skrautligu húsi, í einu landsplátsi, hvört náttúrann hefir prýdt, á kostuligasta hátt; hann er þar fyrir utan ríkur og lifir hvörn dag í vellystíngum og viðhöfn. Siðeldt hefir hann hjá sér gladværa selskapsgésti, ellegar er og sjálfur til gésta, hjá ödrum, og hvört helður sem er, er enginn hlutur sparadur, sem þena kunni til holdligrar gledi og ánægju. Hér ad auki, þó lifnadur hanns sé ecki hinn regluligasti, nýtur hann gódrar heilsu; hann hefir ogsvo ödlast gott konfáng, og börn hanns eru öll komin upp og ordin gjæfusöm. Allt hvad hann fyrir sig tekur, luckast hönum, og hanns útvortis velgengni og audur, þróast dagliga. Þessi madur hlýtur vissuliga, segir fólk, ad vera ánægdur, og þó er hann það í rauninni ecki. Hvörr sem grant þeckir hann, veit ad hann opt, þegar hann er einn útaf fyrir sig, er næsta óánægdur; hönum líkar eckert í heiminum, og hann veit ecki sjálfur, hvar hann vill vera. Hvad er þá það sem ad hönum gengur? máské hann sé melancolískur ad náttúru fari? naumast er það orsökin! Því menn hafa merkt, ad þessi ólund kemur helst ad hönum, nær einhvörr hefir talad við hann um Gud, edur ef þánkinn um daudann er við eitthvörtt tækifæri vakinn hjá hönum. Hann gétur

ecki þolað að hugsa um það, að öll sín vegsemd og allt sit eptirlæti, hér í heiminum, skuli lokfins enda taka. Nýliga var hann í stóru samqvæmi, og var eptir vana glaður og kátur, en miðt í samqvæmisins lystiligasta tali og gledilátum, bar það við, að það fréttist, að einn af þessa samqvæmis medlimum, hefdi dáid óforvarandis á sínum besta aldri. Undir eins og hann heyrði á dauðann minnst, sló allri hanns gladværð niður, og hann, án þess að tala eitt orð, hafði sig á laun burt úr samqvæminu, heim til sín. Hann gétur engaunveginn umborið að heyra um dauðann talað, og þó válægist hann dauðann dagliga. Er nú ecki þessi maður miðt í allri sinni vegsemd og yfirlæti hin ólucksamasta manneskja? En heyrðú nú aðra frásögu þessari gagnstæða!

Hins vegar, í einu lítilsjörligu koti, í einum skuggafullum dal, býr Kristian Andrésson, einn fátækur bóndi, guðhræddur og lítils metinn af heiminum, enn þó mikils metinn hjá Guði. Snemma æfi hanns hefir sá góði Guð, fyrir margskonar neyð og mótlæti, dregið hann til sín. Strax í hanns úngdómi, lærði hann að þeckja, að hann var af náttúrunni spilltur syndari, og þá komst hann að raun um, hve naudsynligt og gott það er, at taka tilflugt til hanns, sem friðþægt hefir fyrir syndirnar. Frá þeim tíma, þá hann gat trúað því í sínu hjarta, að Jesús hefði og svo tekið sig til náðar, féck hann inniliga elsku til

hanns, og ásetti sér að lifa honum til þóknunar í þessum heimi. Við þennann ásetníng hefir hann, midt undir öllum þeim útvortis umbreytíngum, sem honum mætt hafa, stödugur stadid inn til þessa dags. Hann hlaut að vísu í fyrstu ad líða mikid spott, af sínum fyrri félagsbræðrum, sökum þess hann ecki vildi eiga þátt med þeim, í ýmsum syndsamligum athöfnum. En þegar hann ecki skeitti um slíkt, heldr géck sína gotu í kyrdum áfram, þá létu þeir hann um síðir vera í fridi, þar þeir merktu, ad þeir eckert gátu á hann unnið. Hann býr nú á þeim litla kotbæ, og med sínu handa erfidi, nærir sig og hyski sitt, sem er konan og 4 börn á ómaga aldri. Opt á hann mikið örðugt og bágt útvortis, þó sjá menn hann jafnan ánægdann og gladværann, því fridur Guds býr í hanns hjarta. Þegar hann kemur í tal vid aðra um það, hvað gott sé að vera í Jesú samfélagi, og hvílík gledi að njóta hanns návistar, þá verdur hjarta hanns rétt lifandi í honum, og hann er einn augljósasti vottur fyrir öllum, sem þeckja hann, til þess, að sannur kristindómur gjöri fólk ecki þúnglyndt og sinnis veikt. Handverki hanns er svo háttað, að honum géfst tækifæri að ábatast ólöglíga, með hans móti, og hanns þrengjandi kríngumstædur kynnu freista hanns þar til, en hann hefir jafnan hinn stærsta viðbjóð á allri rángsleitni. Nýliga setti einn nágranni hanns honum þetta fyrir sjónir, og sagdi honum,

ad hann væri heimskur í því, ad hann vildi vera ærligri enn adrir menn, því sér hvørr er, sagdi hann, eins og orðtækid hljódar, þjófur í sinni egin nærsngu. En Kristián svaradi hønum: Hvar fyrir skyldi eg svíkja adra, og taka þad sjálfur, sem sá gódi Gud ecki géfur mer? hvad kynni sá ábati ad stoda mig, sem eg ecki gjæti haft med hanns velþóknun og blessun. Sá gódi Gud géfur mer allt þad, sem hann sier mer þjenanligt, og meira vil eg ecki hafa. Hønum kellur opt í hug sú Ritníngargrein, sem margsinnum hefir verid hønum til stórrar huggunar: Ef Gud þyrmdi ecki sínum eginn syni, heldur gaf hann út fyrir oss alla, hvørnig skyldi hann þá ecki ogsvo af nád sinni, géfa oss alla góda hluti med hønum. Róm. 8, 32. Vid þessa fullvissu er hann róligur, svo nær hann margopt ecki veit, hvadan hann fái braud nærsikomanda dag, þá lætur hanns trú hann þó aldrei til skammar verda, því hann hefir þráfinnum reynt staklig merki þess, ad sá ástúdlegi Fadir á himnum þenkir til hanns og hjálpar hønum, med þeim medølum og þeim máta, sem hønum sinndum allra sídst til hugar koma. Þar fyrir nær mótgángur edur einhvør bágindi mæta hønum, þá tekur hann sitt tilflugt til bænarinnar, og þegar hann hefir úthellt naudsýn sinni í síns himneska Fødurs skaut, þá er hann róligur og veit ad hann bænheyrir sig og

hjálpar sér. Fyrir nockrum árum fell hönum það mótlæti til, að hann misti það mesta af því litla hann átti, í einum ógæfuligum elldsbruna, og þar á ofan lagdist hann í strídri og lágvarandi sótt, sem hindradi hann frá að vinna fyrir uppheldi sínu og sinna; þá lá við, að hönum ætladi að hugfallast, en hann fann snarliga aptur huggun af bæninni. Einn af nágrönnum hanns aumkadi hann í þessum hanns krúngum stædum, og sagdi til hanns: kjæri vinur! þú ert mikill ólánsmadur, og Gud leggur svo þúngann kross uppá þig. Nei! kjæri vinur! svaradi hinn, eg er enginn ólánsmadur, því þó eg egi stundum mædusama tíma, þá er það mest minni vantrú að kenna, hvöred veldur mer þeirrar mædu, og hana yfirvinn eg þá med bæninni. Sá elskuligi Gud hlýtur vissuliga ad hafa sinn vísdómsfulla og elskuríka tilgáng, hvörsvegna hann leggur slíkann mótgáng á mig; og nú það er eg viss, að hann gjörir mer það til gagns; hvar fyrir skyldi eg þá mögla ámóti hönum. Híngad til hef eg aldrei stórt lidid, á lífs uppheldi, fyrir mig né mína, og hann sem haldid hefir mér vid híngad til, hefir ogsvo nóg ráð til þass hér eptir. Þessi vor Kristián, er svo luckuligur, ad hann á

þann ektamaka, sem eins sinnadur er og hann; og þar þau bædi elska Drottinn Jesúm, þá uppala þau, med sameginligri kostgæfni, børn sín í aga og umvøndun til Drottins. Þegar madur kemur í hús þeirra, sjer madur, med mestu ánægju, mérki á þeirra minnstu børnum 6 til 8 vetra gømlum, hvørsu þau bera hreinann kjærleika til Guds og Frelsarans Jesú, og eru allareidu tøm ordin, ad hafa umgengni med hønum í hjartanligum bænum. Med engum hlut er hægra ad halda þeim aptur, frá því sem ljótt er, enn nær foreldrar þeirra setja þeim fyrir sjónir, ad þau med þessu edur hinu hriggi sinn elskuliga Gud og Frelsara, sem alla þeirra hegdun sjer, en gjørir þeim þó svo mikid gott. Ad setja þeim þetta fyrir sjónir, gjørir eina stóra verkun í þeirra úngu hjørtum. Þeirra foreldrar megu þessvegna gledja sig yfir, ad sjá børn sín vaxa, ecki einasta ad aldri, heldur og ad vitsku og nád hjá Gudi og mønnum. Þar sem nú þessi frómi Kristián gjørir alls eckert á annara hluta, heldur er þjenustugjarn vid einn og sérhvørn, þá er hann elskadur af mørgum, og hefir frid vid alla. Hann elskar ad sønnu allar manneskjur, en hvar hann

finnur þvílíka, sem elska Drottinn Jesúm, þar flýtur hanns hjarta strax saman í eitt með þeirra, í inniligasta kjærleikans samneyti. Hann er og svo lukkuligur í sínum litla hríng, ad þeckja nockra fáeina þeisshättar og þeirra umgegni, er hönum til sannrar uppörfunar og endurnæríngar. Hans hjarta er uppfyllt med sáluhjálpligri von eilífslífs, og þetta gjörir þad ad verkum, ad hann hefir engann ótta í sér fyrir daudanum, heldur kann med hugrekki og fögnudi hönum ímóti ad renna. Svo er hann þá tilfrids med öll sín kjör í heiminum, og qvídir hvörki fyrir því nálæga né eptirkomanda lífi. Seg mér nú, kjæri Philalethes! vyrdist þér ecki þessi madur vera í sannleika lukkuligur?

Philalethes svarar:

Eg vidurkenni fyrir þér, ad eg finn mig aldeilis þar um sannfærdann, ad þar er engin lucka í heiminum svo stór, sem þessi, og engin sem bera kann lucku nafn, önnur enn hún. Þar fyrir lofa eg því Gudi, ad upp frá þessari stundu, skal þad verda mín adal-ástundan, ad sækja eptir þessari sönnu farsæld, med því ad trúa á Jesúm, og fyrir hanns nád ad fylgja og hlýda hanns lærdómi.

Eusebius sagdi:

Og héldt áframm tali sínu; já vissuligt er þad, ad einn sann kristinn, sem trúir á Jesúm, og fyrir trúna á hann, hefir sinna synda fyrirgéfningu, er allareidu í þessum heimi hin farsælasta manneskja, og nær hann loksins gengur út af heiminum, þá verdur hanns sarsæld yfirmáta stór og fullkominn í eilífdinni: og med því hann sjálfur er viss úm þetta, þá gétur hann þessvegna á sinni daudastundu, þeirri mikilvægu stundu, sem svo skelfilig er fyrir alla ydrunarlausa syndara, þá gétur hann, segi eg, haldid sinni gledi og hugprýdi; hann kann ad segja med Asaph: Þó ad mitt líf og sál vanmegnist, þá ertú þó Gud eilífliga mitt hjartans traust og hlutskipti, Ps. 73, 26. Og med Davíd: nær eg ráfa í gégnum daudans skuggadal, hrædist eg einga ólucku, því þú Drottinn ert med mér; þinn vöndur og stafur hugga mig, Ps. 23, 4. Látum oss því nockud enn nú hugleida, eins þvílíks, til nádartekins kristins manns útgaungu af tímanum! Hversu mörg ypparlig eptirdæmi kynnu

hér ecki ad framsetjaz, en eg vil á medal margra, ad eins skíra þér frá þessu eptirfylgjandi:

Á einum vissum bæ bió bóndi nockur, ad nafni Jørgen Gottfriedson. Hann hafdi fyrir þad ordid út af Guds kjærleika í Krístó Jesú, uppvakiſt og dregiſt, á sínum heilbrygdu døgum, til sannrar umvendunar. Allareidu hafdi hann lengi, í sannri trú á sinn Endurlausnara, vænt eptir ad sá kallan til ad skiljast hér frá, og koma heim til Drottins. Elli hanns og hrumleiki minnti hann á, ad endalykt hanns æfidaga væri í nánd, og svo tók hann um sídir sótt, sem gaf hønum þad í grun, ad hanns burtfør af tímanum væri fyrir høndum. O! hvørsu gladdi hann sig nú, ad hann vissi á hvørn hann hafdi trúad, og þurfti nú ecki hid fyrsta ad spyrja: hvad skal eg gjøra, svo eg verdi sáluhólpinn? Því hann vissi, ad hann allareidu var hólpinn af nádinni, og fyrir Jesú sakir einn erfíngi þess eilífa lífs. Hanns kennifadir vitjadi hanns og gladdist af, ad vera vitni um þann Guds frid, sem uppfyllti hanns hjarta, á hanns sóttarsæng, midt undir øllum þeim líkamans þjáníngum, er hann leid. Hann spurdi hann: hvørt hann væri ecki hræddur fyrir daudanum? og féck þad svar: hvar fyrir

skyldi eg óttast hann, þar eg veit ad min Frelsari lifir? Hann spurdi hann enn framar, hvørt hann vissi ecki ad hann væri einn syndari, og hefdi þessvegna unnid til Guds réttlætis hegníngar? og sá sjúki svaradi hønum, med hrærdu hjarta: Já þad veit eg vel, ad eg er einn syndari, og ad eg hefi til engis unnid, nema til dauda og fordæmíngar; en eg veit ogsvo, ad Jesús Kristur er í heiminn kominn til ad gjøra þvílika syndara sáluhólpna, sem eg er. Eg veit enn framar, sagdi hann (og hér vitnudu gledităr[in] um, til hvøts hanns hjarta fann) ad Jesús hefir í sannleika fyrirgéfid mér allar minar syndir; o! hvørsu skamt mun nú þess ad bída, ad eg í þeirri sælu eilífd, fæ ad þacka hønum og tilbidja hann þar fyrir. Af því samtali sem Presturinn framvegis vid hann átti, og þeim svørum hann gaf, vard þad oldúngis opinbert, ad sú fullvissa sem hann hafdi í sínu hjarta, um sinna synda fyrirgéfníngu, var í alla stadi vel grundvøllud. Hanns kristiligi Kennifadir gladdi sig yfir hønum, og med hønum, og óskadi inniliga: ad hann vid sínar vitjanir til þeirra sjúku, í sinni embættistíd, mætti opt njóta þeirrar gledi, ad finna þvílíka sjúka og deyandi, hjá hvørjum hann kynni merkja, ad hjarta

þeirra lífdi svoleidis í Guðssonar trú, sem þessa sjúka manns. Eptir það hann hafdi nú nockud meira talad vid þann sjúka, um það mikla góda, sem einn vesæll syndari, er af hjarta trúir á Jesúm, fær ad njóta bædi í þessu lífi, og einkum í því eilífa samneyti med Jesú annars heims, skyldi hann vid hann, med gledustu fullvissu á bádar sídur, ad þeir loksins mundu fá ad sjá hvörr annann aptur, fyrir Guds augliti.

Sjúkdómi þessa manns fylgdu þúngir verkir, enn þánkinn um Jesú þolinmædi, í hanns pínu, gjørdi hann róligann, og fyrir bænina fékk hann krapt til þolinmædinnar. Þegar nockurt hlé vard á verkjunum, heyrdu menn hann opt tala um það, sem hanns hjarta var fullt af, nefnliga: Jesú kjærleika, Jesú fridþægjandi pínu og dauda, hvar í hanns hjarta fann sína huggun og rósemi. Sjúkdómur hanns varadi nockra daga, á hvørjum tíma hanns vinir og kunningjar opt vitjudu hanns. Nockrir af þessum vildu, medal annars, eitt sinn hugga hann med þeirri vanaligu huggun, ad hann hlýti fyrir víst ad deyja vel og sáluhjálpliga, því hann hefdi eckert vondt gjørt, heldur alla sína daga lífad einn skickanligu og rádvøndu liferni; leidur af ad heyra

þvílíka fáfengiliga huggun, lypti hann sínum máttdregnu höndum upp og utbrautst med þessum ordum:

Minn þegar líkhams máttur þver,
Mig ekkert, ekkert hugga kann,
Nema þad ord, sem nádin tier,
Og nafn Jesú er mig frelsa vann.

Hann gjørdi þá ad sønnu fullvissa um, ad hann deydi róligur og ánægdur, enn sagdi þar hjá, ad ef hann hefdi ekkert annad ad hugga sig vid, enn sína egin dygd og rádvendni, þá hlyti hann ad sjei ást fyrir því fótmáli, sem hann ætti nú innan skams ad gjøra inní eilífdina. Med mikilli alvøru áminnti hann alla nálæga, ad þeir skyldu snúa sér af hjarta til Drottins Jesú, sem ogsvo væri þeirra vegna dáinn, og hugleida ad nær þeir lokfins hlyti einnig, ad skilja vid heiminn, kynni ekkert ad hjálpa þeim utan hann, og ekkert gylda fyrir Guds réttlætis dómi, nema hanns forþjenusta. Nú kom dagur sá, sem skyldi vera hanns sídarsti í þessum heimi; hanns kraptar þverrudu vid hvørt augnablik, og med laungun þrádi hann eptir sinni burtlausn. Vid sína konu og børn skyldi hann mjøg ástsamliga, sól þan

í Jesú trúfossu hendur, og áminnti þau ætíð ad vera honum trú, þá mundu þau loksins saman verda öll, fyrir hanns augliti, í hinu ödru lífi. Hann vitnadi fyrir öllum um gledi þá, sem í hanns hjarta bjó, út af þeim þánka, ad hann innann skamms fengi hjá Drottni ad vera, og sála hanns var full af háleitum ímindunum, um sælu þá, er hann mundi hjá honum njótandi verda; hanns sídustu ord vóru þessi:

Jesú Krists réttlæti og blessada blódid,
Vid eg mína sálu í daudanum riódi!
Þá verd eg í Guds augum frídur og fagur,
Enn fagnadar upprennur himneskur dagur.

Hann sofnadi svo fám augnablikum þar á eptir, og sá hýrlegi svipur hanns náblikinada andlitis, sýndist jafnvel eptir daudann, ad vitna um þá gledi og rósemi, med hvörri sála hanns hafdi skilid vid sitt jardneska hreisi. Hanns afgángur gjördi í allra nálægra hjörtum þvílíka verkun, sem þeir aldrei gleymt gátu, og sérhvörr skyldi vid hanns banasæng med þeirri ósk: mín sál deyi

þessa réttláta manns dauda, og mín endalykt verdi sem hanns!

Ad eins svo lángt, og ecki lengra, gétum vér med vorri augna-sjón, fylgt vorum trúudum vinum, á þeirra útfarar-skeidi frá heiminum. Hvad sú frá likamanum skilda sál má reyna, þegar hún, frelsud frá ollu bondu, vaknar í þeirri sælu eilífd, og sjer þann, á hvorn hún hér trúad hefir, og fær alla þá sælu til eignar, sem Gud hefir geymt þeim sem hann elska; þetta kunnum vér ad eins í veikleika ad ímynda oss. Hvorsu andvaldt verdur þá ecki ad gleyma ollri lífsins mædu, og ollu jardnesku ágæti, vegna þess fagnadar, sem sálin þá fær ad njóta, þegar henni verdur móttaka veitt, í englanna og þeirra útvoldu glediliga samfélagi, og hún skal eilífliga hjá Drottni vera, sem lætur sitt auglit lýsa yfir hana, og ad eilífu blessar hana. Hvílíkri hjartanligri tilbeidslu mun sálin þá, af fegnudi frá sér numin, offra honum, sem var daudur, en nú lifir um alla eilífd, og sem keypti hana Gudi til

handa, med sínu blódi. En tímanns fortjald hylur ennú þessa sælu, fyrir augum vorum. Láti um oss þessvegna heldur um sinn hætta þessum ímindunum, sem vér í þessu dauðliga lífi megnum ecki réttiliga ad ígrunda.

Hvorsu mörg ypparlig dæmi géfaz þar ecki uppá þvílíka til nádarteкna trúada menn, sem, eins og umgétinn J. Gottfriedson, ei alleinasta án alls ótta, heldur jafnvel med sigri hrósandi hughreysti og sægnudi, hafa skilid vid heiminn, í trausti Jesú forþénustu. Látum vorra tíma upplýsíngar meistara sýna, hvört þeir med sinni eintómis skynsemdar-trú og sidalærdómi, géti géfid mönneskjunnum þvílíkann krapt, til ad mæta daudans skélfíngum, og eilífdarinnar myrkri. Þú kannt ad svara mér, ad ecki sérhvor sannkristinn deyi med þeirri stóru hughreysti, sem Gottfriedson dó, og þú hefir rétt í því, en þetta veikir ecki í hinu minnsta mína meiningu: ad Evangelium sé sannarliga kröptugt, til ad veita manneskjum þvílíka hugrecki. Ad ecki allir

hafa hana í svo hárri treppu, þar til kunna ad vera ýmsar orsakir, hjá sjálfum þeim; til, dæmis: ein veik trú, sem meir lítur á sína bresti og ófullkomleika, enn á nádarinnar ríkdóm í Kristó. En haldi jafnvel sá veiktrúadasti en hreinskilni kristni sig, ad eins í bæn og trú, til Jesúm, þá mun hann þó loksins fá sigurinn, og med Páli géta sagt: Gudi séu þackir sem oss hefir sigurinn géfinn, fyrir Drottinn vorn Jesúm Kristum. Og í eilífdinni mun hann snarliga verda til fulls sannfærdur um, ad hann hefir hér ecki til forgéfins trúad. A hanns ástandi er þessvegna óendanliga stór mismunr, hjá þeirra sem enga von hafa, og sem eckert óhult hæli þeckja, nær þeirra uppvaknada samvitska ángrar þá og fordæmir; og ad minnsta kosti er þad alltíd víst, ad sérhverr, er í sannleika fetar veginn til sáluhjálpar, sem Evangélium kennir honum, hann hefir alltíd fulla orsök til ad deyja med hughreysti.

Ef þú þá, kjæri lesari! æskir þér ad verda í tímanum svo lukkugéfinn, í daudanum svo hug,

hraustur, og í eilífdinni svo farsæll, þá snúdu þér strax til Drottins, ef það er ecki ádur skéd og trúdu Evangelio. Láttú þig ecki villa frá sannleikanum af þeim mørgu spotturum, gégn Biblíunni og kristindóminum, sem þú máské kannt mega heyra, ei heldur af þeirra manneskja frámburdi, sem þvert á móti Ritníngunni, vilja gjøra Jesúm ad eintómum sannleikans og dygdarinnar kénnara. Hálltú fast vid þá sannfæringu: ad hann er ogsvo þinn Frelsari, og ad þar er ecki sáluhjálp í nockrum ødrum, og eckert annad nafn géfid mønnum, í hvørju þeim byrjar sáluhólpnum ád verda, nema nafnid Jesú.

Enn vara þig samt, ad láta þér ecki nægja þad, ad þú þeckir og vidurkennir Evangelii sáluhjálpliga lærdóm; vit fyrir víst, ad margar þúsundir gjøra þad sama, og verda þó ecki sáluhólpnar fyrir Jesúm. Láttú þá ecki þann andvaraleysis, og hálfvelgju-anda fánga þig, sem á tálar dregur og svíkur svo margar sálir. Vertú Jesú Krists Evangelió hlýdugur af hjarta,

sem býður þér að trúa á vors Herra Jesú nafn, og andsýna þína trú með fúsri og sonarligri hlýðni við hann, sem þinn rétta Herra. Hugsaðú til þess, að til að gjöra þig eina eilífliga farsæla skepnu, hefir hann, sem er allrar veraldarinnar Guð og Drottinn, niðurlægt sig svo djúpt, að hann vyrðtist að niðurstíga á jörðina, og í uppá sig tekinni manndómligri náttúru, að varpa sér niður í þá týpstu lægíngu og þann qvalasyllsta dauða, svo hann kynni að friðþægja fyrir þínar syndir. Gleym alldrei því, hvað það kostaði hann, að afreka þér frelsi, og hvörsu súr hann fórnfærði sjálfum sér, gjörði allt og þoldi allt, til þess að frelsa þig. Þenkiú ogsvo um alla aðra hanns óteljandi velgjörninga þér til handa. Þenktú sérdeilis um, hvað hann hefir gjört við þig, frá þínum úngdómi, inntil þessa, til að ávinna þitt hjarta, og til þess að draga þig til sáluhjálpligrar sameiningar með sér. Hvörsu kröptugliga hefir hann við margt tækifæri talað til þinnar samvitsku, til þess að vekja hana? Með hvörsu mikilli þolinmæði og lánglundargéði, hefir

hann umborid þig, inntil þessa dags, jafnvel þó hann hefdi opt hafi mátt vekja hann til réttferdugrar reidi og hegníngar? Ennnú varir hanns þolinmædi, ennnú leitar hann þín, til þess ad gjöra þig sáluhólpinn. Hvílíkur værir þú, ef þú vildir halda áfram ad forsmá svo mikinn kjærleika, svo marga velgjörninga! Hugleid þú, um hvad þú ert hönum skyldugur; Hugleid þú, ad þú kannt ecki fyrir alla hanns velgjörnínga géfa hönum annad, enn þitt hjarta, þinn kjærleika og þína hlýdni. Skyldir þú þá géta fengid af þér lengur ad synja hönum þessa offurs? Þó sem ádur — ecki fyrir hanns — nei, fyrir þinnar egin farsældar sakir, er þad, ad hann girnist, ad þú offrir sér þítt hjarta, þínum kjærleika og þínu trausti. Þú kannt á aunann hátt ómögúliga ad verda luckuligur; en ad þú luckuligur verdir, þad er þó þessa þíns himneska velgjörara innilígasta ósk og alvarligasta vidleitni. Heimurinn, sem smjadrar fyrir þínum skilníngarvitum, og synist at heita þér svo miklu eptirlæti, ef þú uppfyllir þínar vondu girndir, hann táldregur

þig og sleppir þér síðast vesælum og hugganarlausum. Láttú þig ecki af hönum á tálar draga! Jesús hefir sanna og staduga gledi, í sinni sameiníngu, ad veita þér; ef þú hlýdir hönum af hjarta, í trúnni, verdur þú strax hér í heimi luckulig manneskja, og eptir daudann án enda farsæl og hólpinn. Skyldi nú allt þetta ecki géta talid þig til ad fylgja drætti þess góda anda, sem vill hjálpa þér til sannrar og lifandi trúar á Jesúm, svo þú mátt fagna yfir því, ad þú med svo audveldu móti, og án þinnar verdskuldunar, gétur komist til svo stórrar farsældar. En hafir þú reyndar medtekid Jesúm í sannri trú, þá halt fast vid hann, og lát hanns nád geyma þig í hanns sáluhjálpligu sameiníngu, svo hvørki medlæti né mótlæti, hvørki sorg né gledi, hvørki líf né daudi, ellegar nockur annar hlutur skilji þig frá þeim Kjærleika Guds, sem er í Kristó Jesú vorum Herra, þá mun þinn útgángur af heiminum, loksins verda þér inngángur til gledifullrar

eilífdar, og þá muntú ná takmarki trúarinnar, sem er sú eilífa sáluhjalp, hvør ad er nádargjöf Guds í Jesú Kristó; hennar unni Gud oss øllum njótandi ad verda, fyrir síns eingétna sonar Jesú forþjenustu sakir! Amen!

---

Kaupmannahøfn, 1816.
Prentad hjá Þorsteini E. Rangel.

Prentvillur.

(Sjá eintak Stgr. bps Jónssonar).